Sierdeilis þeir Rijku, og þar ad auki sierhver sem hefur nockud Afgangs þvi, sem hañ þarf dagliga med.

1. Tim. 6, 17. 19. RJJKUM þessarar Verallðar biood þu, þad þeir sieu ecki mikillatir, og leggi einga Von uppa þeñañ fallvalltañ Rijkdoom, heldur uppa lifanda Gud, sem oss rijkugliga giefur allshaattar til Notkunar, þad þeir GJÖRJ GOTT, þad þeir AUDGJST J GOODUM VERKUM, sieu GJAFMJLDJR, GOODVJLJADJR, Safnandi sier sialfum Siood, til goods Grundvallar, uppa hid tilkomanda, so ad þeir hondli eilijft Lijf.

244. Hvernig a Madur ad giefa Olmusu?

Eftir sijnum Efnum, af Kiærleiksfullu Hiartalagi. Tob. 4. 9. HAFJR ÞU MJKJD, so veittu RJJKUGLJGA, eñ ef þu hefur LJTJD, so veittu þo af þvi LJTLA med trwu Hiarta.

245. Straffar Gud þa Myskunarlausu?

Jaa. Jac. 2. 13. Þar mun OMYSKUNSAMUR DOOMUR yfir þañ gaanga, sem EJNGA MYSKUNSEMJ HEFUR GJÖRDA.

Psal. 41. 1. SÆLL ER SAA SEM AUMAST hiñ þurftuga, DROTTJNN MUN FRELSA HANN i hiñi vondu Tijd.

## Ut af Attunda Bodordinu.

246. Hvad vondt verdur i þessu Bodordi bañad?

Ad bera falskañ Vitnisburd a mooti Naunganum.

247. Hvad er falskur Vitnisburdur?

Oll Logiñ og œstsemdarlaus Ræda uñ Nœungañ, hvert sem þad skiedur fyrir Rietti edur fyrir utañ hañ.

248. Hvernig verdur falskur Vitnisburdur borinñ i Riettargœngs Mœlefnum?

1.] Þeaar Sækiandiñ ber fram logna Akœru.

Ordsk. B. 19. 5. Eiñ LJUGVOTTUR blijfur ecki Ohegndur, og sa sem FRAMMGJÆRNLJGA FRAMMBER LYGJ, mun ecki undañ hlaupa.

2.] Þa Vitniñ stadfesta Lijgina.

Ordsk. B 19. 5. Eiñ LJUGVOTTUR blijfur ecki Ohegndur.

3.) Þa Talsmaduriñ forsvarar Lijgi œmooti siñi eigiñ Samvitsku. 2. B. Mos. 23. 1. Þu skallt ECKJ TRUUA RAUNGUM KJÆRUMALUM, og GJØR ECKJ þeim Ogudliga nockra HJÁSTOD, so ad þu berir falskt Vitni.

4.) Þa Doomariñ vißvitandi edur af Fœvitsku dœmir þad sem Lygi er, satt ad vera, og þad raungt ad vera, sem riett er. Ordsk. B. 17. 15. Hver hañ SEGJR ÞANN OGUDLJGA HAFA RJETT, OG FYRJRDÆMJR RJETT LAATANN, þeir eru bœdir fyrir DRottni ein Svijvirding.

249. Meiga Christnir Meñ eiga Mœl samañ?

Þeir meiga þad i þeim Sokum sem mikid ríjdur œ, og i stœrstu Naudsyn, flya til Doomara

Embættisins, sem er Guds Skickan, og klaga Naudsyn sijna, æn Haturs til sijns Mootparts; Eñ ad hesta Prætur fyrir liettvæga Sok, og ad syna sig i ollu sierstiñadañ, og hefndargiarnañ, er miog Ogudligt. 1. Cor. 6. 7. Þar er alla reidu Bresiur æ millum ydar, þad þier. HAFID LAGA-DEILUR YDAR æ milli; Hvar fyrir LIJDID ÞIER EIGI miklu helldur ORJETT? Eda þvi lærtid þier ecki ASÆLAST YDUR HELLDUR? Siaa Ordsk. B. 20, 22. Matth. 5, 39. Rom. 12, 19.

250. Hvernig verdur falskur Vitnisburdur boriñ fyrir utan Riettargæng?

Þæ Madur Lijgur uppæ siñ Naunga og kiemur honum ræingliga i Ohroodur.

Sir. 5, 16. Ver eigi SKOGBIJS, og BAKMÆL ÞU ECKI med þiñi Twngu.

251. Eñ maa Madur ecki seigia þad Illt, uñ Næungañ, sem satt er?

Nei, nema þad sie ædur allareidu opiñbert ordid hverium Mañi, og æ þo Madur eigi ad hafa sier til Gamans, ad seigia þar fræ, þvi þad er Kiærleiksleysi.

252. Hvernig kañ Madur ad sviskia siñ Næunga?

1.) Þæ Madur opiñberar þad sem hañ hefur heimugliga trwad honum fyrir.

Ordsk. B. 11, 13. Bakmælugur Madur OPtiñber-

INNBERAR þad, sem hañ veit leiniligt, eñ saa sem med trwfastu Hiarta er, hañ LEINIR þvi.

2.) Þat Madur upplioostrar hans heimugligum Breistum, honum til Skada, eñ odrum til Hneixlis.

Sir. 19, 7. 8. Heyrir þu nockud vondt, þad SEGÞU EIGE eftir, þviad Þogn giorir þier eingañ Skada. Þu skallt HVERKI SEIGIA þad þijnum Vinie Ovin, og OPINNBERA þu þad ecki, kuñir þu ad giora þad fyrir utañ vonda Samvitsku.

153. Maa Madur eigi giefa til kyña Yfirvalldinu edur Prestinum Naungans Synd?

Ju, þegar þad skiedur af Elsku til Naungans, og Umsorgun fyrir honum, og til ad afstra Syndiñi, so sem þa Joseph sagdi Fodur sijnum fraa Synd Brædra siña. Siaa Matth. 18. 17. Hvar ed Christur bijdur ad seigia Sofnudinum fraa Synd sijns Naunga, þegar heimuglig Advorun vill eigi gagna; Eñ ef þad skiedur af Hefnd edur Maalædi, þa er þad Synd.

254. Gietur Madur og med odru mooti missied sig i sijnu Tali?

Jaa, oll onytiu Ord eru syndsamlig.

Matth. 12, 36. Eg seigi ydur, af HVERIU þvi FAANYTINGU ORDI, Sem Meñirnir tala, MUNU ÞEIR REIKNINGSKAP GIORA a ytsta Deigi.

255. Hvad gott er skipad i Attunda Bodordinu?

Ad affaka Naunganñ, ta la vel og me na vel um hañ, og taka allt upp i bestu Meining.

256. Gietur Madur þa gietid goods til allra Mañа?

Pa þeir eigi med þeckianlígum Hollðsins Verkum uppliooſtra ſiñi iñri Vondſku, maa Madur, Kiærleikans vegna, vænta hiñs beſta, og eigi giora ſier Misþanka, edur fa Opocka til nockurs.

1. Cor. 13, 5. 7. Kiærleikuriñ HUGSAR ECKI JLLT, hañ umber alla Hluti, trwir ollu, vonar allt.

Eñ þa Vondſkañ er ordiñ opinber, maa Madur ecki kalla hana gooda.

Es. 5, 20. VEI ÞEJM, hverier ed KALLA HJD VONDA GOTT, og þad hid gooda vont.

257. A Madur og ſo ad affaka ſiñ Naunga þa adrir tala illa um hañ?

Jaa; Gieti Madur þad med Sañl, ſierdeilis þa hañ er eigi ſialfur vid, og kañ ad affaka ſig.

Sir. 6, 5. Hver alla Hluti FÆRJR TJL BETRJ VEGAR, ſa giorir ſier marga Vini.

1. Pet. 4, 8. Kiærleikuriñ HYLUR eiñig FJOLLDA SYNDANNA.

## Ut af þvi Nijunda og Tijunda Bodordi.

258. Hvad er þad vondt, ſem bañad verdur i Nijunda Bodordinu?

Synd-

Syndsamlig Fijsn og Gyrndir, sierdeilis eftir aññarra Gotzi.

259. Hlioodar eigi þad Tijunda Bodord nær þvi eins?

Jw.

260. Hver er Mismunur a millum þess Nijunda og Tijunda Bodordsins?

Mismunuriñ er eigi so sierdellis iñifaliñ i þeim Hlutum, sem Meñ gyrnast, so sem i þvi, hverniñ Gyrndiñ edur Fijsnin er a sig komiñ.

261. Hvad margslags er þa su Illa Gyrnd?

Tveñslags.

1.] Erfdagyrndiñ, edur Upprunagyrndiñ, sem er su spillta Nattura sialf, edur Tilhneiging til þess Vonda.

2.] Sw gieranliga Gyrndiñ, sem framkiemur af Upprunagyrndiñi, eins og eiñ Avoxtur af siñi Root, og verdur hun aññadhvert af Vilia Mañsins Sampickt og halldiñ vid Magt, ellegar heñi verdur mootstadid, og hun nidurkiæfd.

Jac. 1. 14. 15. Sierhver freistast nær HANN TILTEIGIST AF SINNI EIGINN GYRND OG LOCKADUR VERDUR; Og sijdañ þad GYRNDINN hefur gietid, FÆDIR HUN SYNDINA, eñ nær SYNDINN er fullkomnud, FÆDIR HUN DAUDANN.

262. Hvar verdur fyrirbodiñ su gioranliga Gyrnd?

J Níjunda Bodordinu, hvert i 5. Mos. B. 21 utleggst soleidis: **Þu skallt ecki gyrnast** a[...] þad er; Lat þu þin̄ Vilia eigi burtdragast, fra mier þijnum Gudi af þeim vondu Gyrndum, sem bwa i þier. (Sia 65. Spurning.)

263. Hvar verdur Uppruna Gyrndin̄ boñud?

J Tiunda Bodordinu, sem utleggst soleidis: **Þu skallt ecki gyrnast**, þad er: Þar skal ein[...] gin̄ vond Gyrnd vera i þijnu **Hiarta**; **Þu skallt** einga Arf-Synd hafa.

264. Fin̄st þa nockur Madur a Jordun̄i sem einga vonda Uppruna Gyrnd hefur?

Nei. 1. Joh. 1. 8. Ef ad vier seigium, vier HÖFUM EINGA SYND, þa VILLUM VJER SJALFA OSS, og San̄leikurin̄ er ecki i oss.

265. Fordæmir þa Uppruna Gyrndin̄ þan trw[...] udu Guds Börn, sem hafa Angur af hen̄i?

Nei, hia þeim hefur Syndin̄ tapad þeim sijn[...] um Krafti, sem fordæmir, med þvi þ[...] u eru i Christo, og standa eigi framar nakin̄ edur Forsvars-laus fyrir Guds Riettlæti.

Rom. 8, 1. So er nu EINGINN FORDÆ-MING i þeim sem J JESU CHRISTO ERU, þe[...] im sin̄ eigi gánga eftir Holldinu, helldur eftir Andanum.

266. En̄ hvad þa; Ef Madur lætur so Uppruna Gyrndina vid sig tala, ad honum þikir vænt um ad fylgia gioranligum Gyrndum?

Hvar

Hvar sem su gioranliga Gyrndiñ rædur fyrir, og hefur Yfir-Raad, þar rædur Chrisli Raad ecki fyrir, og er so su Mañeskia undir Bølvaniñi.

Rom. 8. 13. Ef þier LIFID EFTIR HOLLD-INU, munud þier DEYA, eñ EF ÞIER DEYD-ID fyrir Andañ Holldsins Gierdir, MUNUD þier LIfa.

267. Er þa vond Gyrnd Synd, þo hun sie ad eins i Aformi og komist eigi leingra?

Jaa, fyrir Gudi tekst Viliañ fyrir Verkid.

Matth. 5. 28. Hver hañ lijtur Konu til ad gyrnast heñar. etc.

268. Kañ þa Madur ad brioota aa þeña Haatt Bodord Guds øll med einberum Þaunkum og Gyrndum?

Jaa vissuliga, þvi Guds Logmaal er andligt, og hver sem vill hinum Bodordunum hlijda, maa ydugliga taka Vara aa sijnu Hiarta, eftir þvi sem þessi seinustu Bodordiñ aaskilia, þvi þau eru so sem Lykill ad ollu Logmaalinu; (kieña ad skilia allt Logmaalid.)

269. Er þa øll Fysn og Gyrnd Synd?

Saklaus Gyrnd er su, sem Saaliñ hefur til þess sem Lijkamiñ þarf med, so sem Lyst til ad eta, drecka, sofa, hræra sig, og aññara soddañ Hluta; Su Gyrnd var med Mañinum i sakleysisins Standi, og ad þvi Leitl er hun eigi Syndsamlig.

270. Eñ framkoma þar þo eigi margfalldar Syndir af soddañ nattturligum Eftirlaungunum?

Ja, ad vijſu, og velldur þvi ſu mrætta Naatt-uruñar Spilling, ſem vill komaſt i alla Hluti, og giøra Eftirlaungunina þa ſkickanligu oſkickanliga, ohoofliga og ſauruga, ef vier eigi noogſamliga tokum Vara a oſs og mootſtrijdum heñi.

271. Hverier eru þeir ſyndſamligu Hlutir ſem Gyrndiñ feſtiſt meſt a?

Þad eru þeir Hlutir:

1.) Sem eiga ſkilldt vid Ohoof, Drambſemi og Velîyſtingar.

1.Pet. 2, 11. Halldid ydur fra HOLLDLIGUM GYRNDUM, hveriar i giegn Sãlunni ſtrijda.

2.) Þeir Hlutir ſem odrum viddvijkia, hveria Gud hefur ecki gieſid mier, helldur mijnum Naunga, og ma eg þeſs vegna eigi miſuña honum þeirra, ſo ſem er, hañs Egta-Kvinña, Pioon, Pioonuſtu-Kvinña, edur nockud af ollu þvi ſem honum heyrir til.

272. Giet eg þa med eingu mooti gyrnſt neitt af Munum og Oriettar af þvi Gotſi ſem miñ Naungi a?

Ad vijſu: Ofta ma eg Kaupmañs Vorurnar fyrir Betalijng, ſo ſem Abraham faladi Akurinn. 1. Moſ. 23. 4. Eñ ecki ma eg gyrnaſt ad draga undir mig Gots mijns Naunga, med Riettinda Yfirvarpi, Svikum eda Ofrijki, ſo ſem Achab agyrntiſt Nabots Vijngard. 1. Keng.

Kong. 21, 2.

273. Hvad er nu gott bodid i Nijúnda Bodordinu?
Ad vier tokum Vara as oss fyrir vondum Hiartans Girndum, og striidum mooti þeim.

274. Hvad Gott er skipad i Tijunda Bodordinu?
Ad vier skulum ecki eitt Sinn hafa hina minstu Girnd vonda i Hiartanu.

275. Hvar til þienar þa þad Tijunda Bodord, sem utheimtir af oss Mönnunum eitt alldungis fullkomid Sakleysi, sem oss er þo Omoguligt ad lata Gud hia oss sinna?

Þetta Bodord synir:

1.) Guds fullkomna Riettlæti, sem hefur Riett til ad utheimta þad, og ætelia fyrir þad, sem Madurinn, nu i Syndina fallinn, kann þo ecki af sijnum Kroftum ad framkvæma.

2.) Synir þad, ad Gud er eigi Orsok til þess, ad Madurinn fiell i Syndina; Þvi hefdi hann verid Orsok til þess, þa hefdi hann alldreigi kunn ad ad banna þessa illu Girnd, sem þar af leiddist.

3.) Synir þad, ad allir Menn, lijka þeir heilöguustu, eru Reyndar Syndarar, og fa eigi med þeirra eigin Riettlæti stadist fyrir Gudi; þvi, þoott þeir, fyrir Guds Naad, feingi yfirunid allar gioranligar Syndir og Girndir, þa er þo þessi Erfda Synd þeim Orsok til ad audmijkia

mijkia sig fyrir Gudi.

276. Hvad er styttsta Innihalld þessara Orda: EG ER DROTTINN GUD ÞINN STERKur o. s. f.

Tvær Ordsakir sem skulu oss knija til ad hallda Guds Bodord, edur ad fordast þad Vonda, og giora þad Gooda.

277. Hver er firri Orsøkin?

Guds riettferdug Reidi og Vandlæti, sem heotar ad straffa alla þaa þverbrotnu Yfirtrodslu-Meñ sijna Boderda.

278. Hver er su sijdari Orsøkiñ?

Guds Fodurlig Naad og Myskunsemi sem los-ar ad giora þeim Gott, sem hallda hañs Bodord.

279. Hvad er Yfirtrodsla edur Synd?

Allt þad sem strijdir a mooti Guds Bod-ordum, sem nijliga er utmaalad.

280. Hvad margslags er Syndiñ almeñiliga ad seigia?

Tveñslags; Erfda-Syndiñ edur Uppruna-Syndiñ, og Gioranlig Synd.

281. Hvad er Erfda-Syndiñ?

Hun er Naatturuñar Vanart, iñgrooiñ For-diorfun, og illar Tilhneigingar, (sem Tijunda Bodordid hondlar uñ.)

282. Þvi kallast hun Arf-Synd edur Erfda-Synd?

Af þvi hun er oss medfædd, So sem eiñ von-dur Erfda-Hluti, eftir vorn Fodur Adam.

Rom.

Rom. 5. 12. Syndiñ er FYRJR EJNN MANN KOMJNN J Heimiñ.

Psal. 51. 7. Sia þu, ut AF SYNDSAMLJGU SÆDJ EM EG GJETJNN, OG J SYND GAT MJG mijn Moodir

283. Hvad er ſu giøranliga Syndiñ?

Allar vondar Hugſanir, Ord og Giørdir, ſem framkoma ſo ſem illur Avoxtur af vondri Root Arf-Syndariñar.

284. Er þad þa eins lijka Synd ad læta ogiørdt og forſooma þad ſem Gott er, eins og ad giøra þad ſem Jllt er?

Jæ, v'ſſuliga. Jac. 4. 17. Hañ ſem kañ nockud GOTT ad giøra, OG GJØRJR ÞAD EKKJ, ÞEJM ER ÞAD SYND.

285. Hvad margſlags er ſu giøranliga Syndiñ ſier i Lagi?

Tveñſlags, ſem er, ſu Synd ſem kiemur af Breiſkleika, og ſu Synd ſem kiemur af Jllgyrni.

286. Hvad er Breiſkleikans Synd?

Hün er þad, þa eiñ Sañchriſtiñ Madur, ſem af Hiarta hatar allar Syndir, misſier ſig af Fæ-vitſku, O-gdgiætni, Aſtrijdu, edur einhveriu þeſs Hættar; Eñ ſtrax ſem hañ ſijna Synd ſier fyr-ir Typtan edur Amiñingu Andans, i Samvitſk-uñi, ængraſt hañ af heñi i Hiartanu biður Gud Fyrirgiefningar æ heñi, og kepp.ſt þeſs framar

framveigis ad betra sig. Gal. 6. 1. Ef Madur verdur a einhvern Hatt af nockrum BRESTI YFIRFALLinn, þa leidriettid hañ med hoogværum Anda. Jac. 3. 2. Allir vier BRIOOTUM, MARGFALLDLIGA.

287. Hvad er Illgyrnis Synd?

Pa Madur vijsvitandi, viliandi og med Giedþocknan, giorir þad sem Illt er, eñ lætur ogiordt þad sem Gott er, og helldur ærfram i þvi Illa. 1. Joh. 3. 8. 10. Hvør SYNDINA GIORIR, sa er af Diøflinum, þvi ad Diøfulliñ syndgar af Upphafi: Þar til byrtist Guds Sonur, ad hañ nidurbriooti Diøfulsins Verk: hver AF GUDI er FÆDDUR, sa GIORIR EIGI SYND, þviad hañs Sæd blijfur hia hønum, og hañ GIETUR EIGI SYNDGAST, þviad hañ er af Gudi fæddur. Þar af eru auglioos Guds Børn, og Diøfulsins Børn. Hver hañ eigi giørir Riettvijsina, sa er ecki af Gudi, og hver eigi elskar siñ Broodur. Sia Joh. 8, 34. 2. Pet. 3, 34. 4. Mos. 15, 30.

288. Rijdur lijta nockud a þvi, ad þeckia þeña Mismun Breisklerkans Syndar, og Illgyrnis Syndarinnar?

Mikid rijdur a þvi, þvi þad allra stærsta Andvaraleysi kiemur riett af þvi eñu sama, ad Madur giorir eigi soddañ Greinarmun; Þar af kañ og ad orsakast nardsynialaus Aniairrsemi.

289. Hvernig kañ Andvaraleysid ad orsakast af þvi?

Pad orsakast so af þvi, ad sa sem lifir i Illgyrnis Synd-

is-Syndum, hugga sig vid þad, ad allir Meñ sieu Syndgrar, og sier sie eigi vendara eñ odrum.

290. Er þad ecki satt, ad allir Meñ sieu Syndarar?

Vijst eru allir Syndarar, eñ þar er stoor Mismunur, sem ædur er bwid ad syna.

291. Seig þu mier þañ Mismun eñ nu med ødrum Ordum, med þvi so mikid rijdur a þessu?

Þad skilur so mikid sem Noott og Dag; Þvi Guds Born hafa ad soñu Synd Breiskleikans, siña til Syndariñar, þiaist af Syndiñi, verda þvert i mooti þeirra Vilia yfirfalliñ af Syndiñi, og leggia Dagliga af, meir og meir, sijnar syndsamligu Yfirsioonir og Bresti, af hverjum þau hafa saart Angur, so þau gaanga þo eftir Andanum, og leggiá sig til þess, ad verda fullkomiñ i þvi sem Gott er. Eñ Heimsins og Diofulsins Born giora Syndina (setia sig til ad syndga) gledia sig i Syndiñi, og skiemta sier vid hana. Ja: þau syndga uppa Nadina, og gaanga so eftir Holldinu, hvers vegna þau skulu deya.

292. Driigir þa eitt Guds Barn alldrei nockra Illgyrnis-Synd?

Alldrei, þad getur ecki med nockru mooti komist heim vid þad Nædariñar Stand sem þad er i, og þa niju Fæd na, so leingi sem þad er stadfast i heñi. Eñ falli þad med Asetnings Synd fraa

 þvi

þvi Standi, þa er þad ecki Guds Barn leingur.

1. Joh. 3. 9. Hver af GUDI ER FÆDDUR, SAA GJÖRIR EIGI SYND, þviad hañs Sæd blijfur hiaa hönum, og hañ getur eigi syndgast.

293. Nu þar ed Guds Börn hafa þo Eftirstödvar af syndsamligum Yfirsioonum og Brestum, kuña þær þa eigi ad fordæma þau?

Aldeilis ecki. Hinar allra miñstu Syndir þeirra væru ad sönu Fordæmingar verdar, eñ þeirra Samfielag med Christo friiar þau þar fraa.

Rom. 8. 1. So er nu ENGINN FORDÆMING I ÞEIM, SEM I CHRISTO JESU ERU: þeim sem eigi gaanga eftir Holldinu, helldur eftir Andanum.

294. Skadar þa Breiskleikans Synd alls ekert christiñ Mañ?

Ju, hun deyfir Nædina, og hindrar þa Sonarligu Diörfung Andans, i þvi sem Madur aa ad hendla uñ vid Gud, og horfir miög til þess, ad Madurinn falli fraa Gudi i Illgyrnis Syndir.

295. Hvad giörir þa su Illgyrnis Synd ad Verkum?

Alla þaa sem hana elska fordæmir hun, og giörir hræggiligañ Adskilnad millum Guds og þeirra, jaa, hun giörir þaa Dioflinum lijka, bædi þessa Heims og aňars. 1. Joh. 3. 8. Hver SYNDINA GJÖRIR sa er AF DJÖFLINUM.

1. Cor. 6. 9. Vitid þier eigi, þad RANGLAATIR MUNU EIGI EIGNAST GUDS RIJKI?

RJ? Lætid eigi villa ydur, hverki Fridluliijis Men nie Bloot-Meñ Skurdgoda, eigi Hoordooms-Meñ, nie Sælgiætingar, eigi heldur þeir sem Skom̃ drijgia med Karlmøñum, eigi Þioofar nie Agyrndar-Meñ, eigi Ofdryckiu-Meñ, eigi Hneixlarar nie Ræningiar, munu Guds Rijki erfa.

296. Er ein einasta Synd af þessum edur ødrum Illgyrnis Syndum noog til ad fordæma Mañiñ?

Jaa, þvi jafnvel þo Madur drijgi eigi utañ eina edur adra vissa Synd, sem hañ freystast af, edur fær Hentugleika til, þa audsynir þo su eina Synd, sem i honum drottnar, ad hañ er eñ þa ecki um̃vendadur, og ad hañ i sijns Hiartans Gruñi sie eiñ Guds Foragtarl. Jac. 2. 10. Þo ad einhver hielldi allt Løgmaalid, og brotligur yrdi i EJNU, þa er hañ þegar ALLS ÞESS sekur.

297. Er þa nockur Mismunur aa Illgyrnis Syndunum?

Jaa, hiaa sumum drottna þær med Forherding og stooru Andvaraleysi, so sem hiaa Pharaoneñ hiaa sumum drottna þær aan Forherdingar, og drijgiast med Samvitskuñar Sturlan edur Mootmæli, so sem hiaa David, þa hañ var ad høndla med Uriam.

298. Hver er su fremsta Trappa i Illgyrnis Syndum?

Þegar saa sem i sijnu Hiarta hefur verid aa-

nægianliga saññærdur um̃ Sañleikañ, an Pvijn-gunar og Tilleckunar, moothroooanliaa og af Aſ-ſetningi, neit æ hædir oa offækir ſ:oddañ Sañlei-ka og Lærdoom um̃ Guds Otta, og helldur from̃ i þeſſu ydrunarlauſt: og kallaſt þetta Syn-nd a mooti heilögum Anda, edur hañs Em-bætti, og fyrirgiefſt ecki. Matth. 12. 31. Ebr. 6. 4. 5. 6

299. Er þa Myſkun Guds og Forþienuſta Chriſti eigi noog kraftug til ad fyrirgiefa lijka þeſſa Synd?

Hier ſkortir eigi a Guds og Chriſti Sijdu, þvi hañs Naad og Forþienuſta er i ſiaalfu ſier noog anægianlig, og yfirgnæfir allar Syndir; Helldur er Mañinum um̃ þetta ad kieña, ſem helldur fram̃ til Æſiloka i hatursfullri Spott-an og Offsookn þeſs Sañleika, ſem hañ hefur adur þeckt.

300. Kañ Madur og ſo ad giøra ſig hluttaka-ra i añarligum Syndum, og ſo eiñig lijka i þeirra Straffi?

Ja, og þad ſkiedur, þegar Mañi þykir vænt um̃ þær, gietur Samþycki, Raad, Befalning, edur Tækifæri til þeirra, og hindrar þær ecki, edur ſtraffar, ef hañ gietur.

3. B. Moſ. 19. 17. STRAFFA þiñ Naunga, ſo þu BERIR EIGI SKULLD hañs vegna. Eins

1. Tim. 5, 22. Opinb. B. 18, 4.

301 Hveriar eru þær almenniligustu stoor Syndir i mooti Guds Logmaali?

Pad eru: Vantrw, Hræsni, Ærugyrnd, Agyrnd, Vellost, Reidi, og Ofholinmædi.

302. Hveriar eru þær hellstu og stærstu Dygdir eftir Guds Logmaali?

Þessar: Trw, Kiærleikt, Froomleiki, Audmiukt, Anægia, Hoofsemi, Bindindi, Hoogværd og Polinmædi; og, umfram allt, gudrækilegt og himneskt Sinnislag.

303. Hveriu hootar Gud þeim sem eigi hlijda hans Bodordum?

Ad hann vill vitia þeirra Vondsku med Straffi.

304. Skiedur þad þa alleina i þessum Heimi?

Nei, stundum fær saa ogudligi ad siaa Enda med Skielfing, en oft luckast honum so vel Illindin, ad hann er kalladur sæll; Þo kiemur fram um sidir hans Straff i HELVITI OG KVOLUNUM. Luc. 16. 23.

305 Kiemur þad tijmanliga Straff alleinasta yfir sialfan þann ogudliga?

Nei, Gud straffar og so Illsku Foreldrana a Bornunum i þridiu og fioordu Ættkvijsl?

306. Er þad þa riett ad straffa Sonin fyrir Syndir Fødursins?

Jaa, þegar hann geingur i Footspor og Eftir-

dæmum siins Fodur, fram i somu Syndum, Pvi añars rætist þad sem stendur:

Ezech. 18, 19. 20. SONURINN SKAL ECKI BERA FODURSINS MISGIORNING, fyrir þad ad hañ giørdi vel og riettvijsliga, og hañ hiellt og giørdi øll miin Riettindi, þa skal hañ lifa.

307. Hversu margfallt er almeñiliga Guds Straff?

Prefallt

1.) Lijkamligt, so sem: Strijd, Hallæri, Drepsoott, edur øñur Ohamingia bædi a Landi og Lijdum.

2.) Andligt, so sem: Guds Reidi, og þad, ad hañ burttekur siñ Anda, og sviptir siñi Naad, yfirgiefur i fraaleitt Siñi og Forherdingar Doom.

3.) Er þad Eylijfa, sem er: Fordæming til Helvijtis. Somuleidis eru eiñig þrefolld Laun fyrir þad Gooda: Lijkamlig, Andlig, og Eilijf.

308. Hverju goodu heitir Gud þar i moot þeim sem hallda hañs Bodord?

Ad hañ vill giøra Myskunsemd vid þa i Pusund Lidu.

309. Hvad skilst hier fyrir Myskunsemi?

Allt gott til Lijfs og Saalar, um Tijma og Eylijfd. 1. Tim. 4, 8. Gudrækni er til allra Hluta nytsom, HAFANDI PESSA LIJFS FYRIRHEIT, OG PO HINS Epterkomanda.

310. Hverium lofar Gud siin Mÿkun?

Þeim, sem han elska og hallda hans Bodord.

311. Eisikar þa eingiñ Gud nema sa sem helldur hans Bodord?

Nei. Joh. 14, 21. Hver hañ hefur miin Bodord og HELLdur ÞAU, hañ er sa sem mig ELSKAR

312. Hvad er þad, ad Madur helldur Guds Bodord?

Þad er, ad eiñ Endurfæddur og til Nadar tekiñ christiñ Madur hefur Guds Vilia alltijd fyrir Augum sier, og lagar siinar Hugsanir, Ord og Gioerdir þar efter, af einlægu Hiarta, med stadfostum Asetningi, ad læta sier i þvi framfara.

Joh. 14, 23. Hver hañ ELSKAR mig, sa HELLDUR miin Ord. 1. Joh. 2, 3. 4. 5. Par af vitum vier þad vier ÞEKKIUM hañ; Ef ad vier VARDVEITUM hañs Bodord. Hver ed segir: Eg þecki hañ, og helldur ecki hañs Bodord, sa er Lÿgari, og i þvilijkum er eingiñ Sañleikur; Eñ hver hañs ORD VARDVEITER, i þeim er sañarliga Guds Kiærleiki fullkomiñ.

Matth. 28, 20. Kieñid þeim ad HALLDA allt hvad eg baud ydur, og siaid: Eg em med ydur alla Daga, allt til Enda Veralldar.

313. Gietur Madur þa halldid Guds Lögmaal edur Bodord?

Ja, med þvi Maduriñ elski Gud riettiliga,

 þa

þa bædi mar hañ, og lijka kan hañ ad hallda Guds Boðord, med einlægu Giedi; eftir Evangelii Anda, fyrir Kraft Christi; Þo þad kuñi ecki ad skie eftir því sem Logmaalid i strangasta Maata utkrefur, og kan Maduriñ þess vegna ecként Gott fyrer slijkt ad forþiena, helldur bevijser hañ þar med sijna Trw og Kiærleikañ. Joh. 14, 23. 1. Joh. 5. 3.

314. Kuñum vier þa ad forþiena Saaluhiaalpina med því ad hallda Logmaalid?

Nei, 1.) Því vor Hlijdni er ein Skyllda edur skylldug Þioonusta.

Luc. 17, 10. Nær þier hafid allt þad giordt, hvad ydur var bodid, þa segid: ONYTTIR ÞJOONAR erum vier, því hvad vær attum MED SKYLLDU ad giora, þad giordum vier.

2.) Verdur Logmaalid ecki halldid af Krafti vorrar Naatturu, helldur af Guds Naadar-Krafti, og er þad eigi vor For-þienusta sem Gud verkar i os.

Phil. 2. 13. Gud er hañ sem YDUR VERKAR bædi Viljañ og Giorningiñ, eftir sijnu Þocknan.

3.) Verdur Logmaalid alldrei halldid so fullkomliga ad Hlijdni Andans, þo hañ sie vijst reiduliga, sie eigi blendud med Breiskleika Holldsins; samt auglijtur Gud og launar i Naad sijñi, fyrir Christ

[illegible] d, vora Hlijdni, þo hun sie ofullkomiñ.

Psal. 130. Ef ad þu Drottiñ villt tilreikna Syndirnar, DROTTINN, HVER MAA ÞAD STANDAst?

315. Gietur Madur ecki eins og Postuliñ komist so laangt i Hlidni Logmaalsins, ad hañ sie sier sialfum eigi medvitandi nockra Synda, sem hañ hafi af Asetningi drijgt, eftir þad hañ hefur giordt Jdran?

Ju, þvi Postuliñ var lijka ein breisk Mañeskia; Eñ þa Madur er nu so laangt komiñ i þvi Gooda, sem hoñ var, er Madur þo ecki þar fyrir riettlaatur fyrir Gudi.

316. Þvi ecki?

Vegna þess, ad Logmaalid er andligt, eñ Gud, sem oss dæmir, sier eftir Hugreñingum og Synd-um, meir eñ aller Meñ, grandgiæfiliga; Jaa, framar eñ vier sialfir kuñum ad skygnast i vorn syndum spillta Hiartans Gruñ, og þess vegna er su utvortis Sidsemi og Riettlæti, (sem kañ ad finn-ast jafnvel hiaa Heidingium) ecki Uppfylling Log-maalsins.

317. Er þa eingrar Fullkomunnar ad vænta i þessu Lifi?

Eingiñ er so fullkomiñ ad Syndiñ utrijmist alldungis fraa honum, edur alldungis þrioti Strid milli Holldsins og Andans, og eckert ad-fatt fiñist framar. Þo kallast, og er, eiñ Christ-

iñ

iñ Madur fullkominn, i Tilliti iii

1 ] Hañs Riettlætingar fyrir Christum, hver ed fullkomliga befur i burt tekid alla hañs Synd, og fullkomliga klædt hañ ollu sijnu eigin Riettlæti.

2.] I Tilliti til hañs Helgunar; Eñ þa merkir ecki þetta Ord, FULLKOMINN; syndlausañ fullkomlialeika eftir Logmalinu, hel dur alls Hiartalagsins einlæga Trwfesti og Raadvendni.

3.) I Tilliti til añara breiskari og ofullkomnari, eftir þeirra Allduars Maata i Christo. Ps.3 12 15. Col.1.28. Matt.5 48. 2.Cor.7.1.

318. Þegar vier nu leggium Astundan a ad hallda Guds Bodord, hvad giorum vier þa?

Vier giorum Goodverkin.

319. Hver eru þau riettu Goodverk?

Eigi alleinasta utvortis Gudrækins Athafnir, Riettlætis og Kiærleikans Verk, helldur og so inwortis, þær heilogu og goodu Hrœringar, sem Guds Andi verkar hiaa endurfæddum Guds Bornum, eftir Reglum Logmalsins, ecki þo af þvi, ad Logmalid þvingi þau til þess, helldur kiemur þad af þvi, ad Trwiñ og Raad Guds, sem þau þiggia, helldur þeim siaalfvilugliga til þess, sem verda meigi til Dijrdar Gudi, eñ Gag-

ns Naunganum. Gal. 5.22. Avertur Andans er KJÆRLEJKJ, FÖGNUDUR, FRJDUR, POLJNMÆDJ, BLJDLEJKJ, GOOD-GYRNJ, TRUU, HOOGVÆRD, HREJNLifi.

320. Eru þá Bænir, Olmusur, og soddañ Athafnir Heidingiañа og þeirra Oendurfæddu Christnu lijka eiñig Goodverk?

Eki eru þau fyrir Gudi fullkomliga good, þvi hvad sem eigi fram kiemur af Trwñi, þad er og so Synd.

321. Er þad aldungis naudsynligt, ad giora sañarlig Goodverk?

Jaa, þad er ad vijsu naudsynligt fyrir alla þa, sem vilia verda sæluhoolpnir; Þvi þad er eitt af þvi, til hvers JEsus hefur oss endurleyst, þad fram kiemur af Trwariñar Natturu, og þar med audsijnist su nyа Hlijdni.

Ebr. 12, 14. Eftirfilgid Fridnum vid hvern Mañ, og HELGUNJNNJ, AAN HVERRAR þad EJNGJNN KANN DROTTJNN AD SJAA.

322. Eñ eru þa Goodverkiñ naudsynlig, so sem ein verkandi Orsok; til ad giora oss Riettlaata og Sæluhoolpna?

Nei, þar til duga vor bestu Verk aldeilis ekkert, (sem fyrr er sagt.) Phil. 3. 6. 7. (Eg var) eftir Vandlætinguñi Ofsooknari Safnadarins, verandi sialfur) EFTJR RJETTLÆTJNU J LÖGMAAJNU OSTRAFFANLEJGUR. Eñ hvad mier Avinngur

ingur var, þad hefi eg Christi vegna fyrir Skada reiknad.

323. Fyrir hvad verdur Madur þa Riettlætur og Sæluhoolpiñ?

Alleinasta fyrir Trwna, sem tekur ad sier Guds Naad i Christo.

Rom. 3. 28. So holldum vier nu þad Madurinn VERDI RIETTLATUR æn Logmaalsins Verka, FYRIR TRUUNA alleina.

324. Er þa Trwiñ so mikils verd i vorum Christindoom?

Jai, hun er þad allra dijrmætasta, þvi æn heñar er omoguligt Gudi ad þocknast, Ebr 11.6.

325. Hvar fiñ eg þa i mijnum Catechismo frekari Uppfræding uñ Trwna?

J þeim odrum Partinum, sem hondlar uñ vorrar christiligrar Trwar Hofud-Greinir.

## Sa Añar Parturiñ.

326. Verdur Madur Sæluhoolpiñ fyrir þad, þo hañ kuñi Trwar-Greinirnar?

Nei, þvi Diofulliñ þeckir þær lijka. Jac 2.19.

327. Hver Mismunur er millum Trwariñar Hofud-Greina, og sialfrar Trwariñar?

Trwariñar Hofud-Greinir eru Utvortis fyrir Mañinum sa Sañleiki, sem hañ skal trwa og medtaka fyrir Sañindi. Eñ Trwiñ sialf er Jñvortis i Mañinum þad Traust og Tiltrúan, med hveriu hañ tekur ad sier oll þau Sañindi,

sem

sem mi eru falin i Trwarinnar Hofud Greinum.

328. Hvar um hondla Trwarinnar Hofud-Greinir. Um Guds-Veru, Vilia og Verk.

329. Er þa einn Gud til?

Jaa, vissuliga.

330. Hvad giefur þier Vissu um þad, hvert Gud er til, med þvi þu sier hann ecki?

Vijst kann eg ad siaa hann; Po þad sie eigi med Lijkamligum Augum, þa sie eg hann samt i Huga mijnum, i minni eigin Samvitsku, at Skepunar-Verki allrar Veralldarinnar, og i Lioosi heilagrar Ritningar.

331. Hvernig fræda þessir Hlutir þig þar um, ad þar sie einn Gud til?

1.) Samvitskann, sem er Doomstooll Guds i Hiartanu, kiennir mier þad med heimugligum Otta, þa eg giori þad sem Illt er, enn med nockurs-konar Yndi og Hugfroo, þa eg giori þad sem Gott er. Rom. 2. 15. Þeir (Heidnu) beviisa, þad Loamaalsins Verk sieu SKRIFUD I ÞEIRRA HIORTUM, MED ÞVI ÞEIRRA SAMVITSKA SIAALF BER ÞEIM VITNI, og þar med þeir Þankar, sem sijn aa milli munu aatlaga sig, edur afsaka innbyrdis.

2.) Skepunar-Verk alls Heimsins, og hanns Vidhalld, vitna um þad sama daagliga fyrir mier. Rom. 1. 19. 20. Menn vita ad Gud er til, þad

þad er PESSM OPINBERT, ÞVÍAD GUD HEF-
UR FEIM ÞAD OPINBERAD, MED ÞVÍ-
AD GUDS OSÝNILIGIR HLUTIR SJÁAN-
ST, þad er hans eilijfur Kraftur og Guddoomur
ÞEGAR MENN GIÆTA ÞAR AD, A VERK-
UNUM, sem ad er, a Veralldarinnar Skopun, so
ad þeir hafa einga Afsøkun.

3.) Su heilaga Ritning talar Liosligar her
um, og hellagur Andi innsiglar þann Sannleik,
fyrir Ordid, i Hiortum þeirra Trwudu.

Joh. 1. 18. Eingin hefur nockurn Tijma Gud sienann,
sa eingietni SONURINN, sem i Fødursins Skau-
ti er, hann HEFUR OSS þetta KUNNGIØRDT.

332. Er þa su nattúrliga Þecking sem ein Heid-
ingi kann ad hafa um Gud af Skynseml sinni, Sam-
vitskunni, og Skøpunar-Verki Heimsins, ecki noog til
Sáluhiálpar?

Nei, þvi hun veit alls eckert af Christo og Gu-
ds Naad i honum; þvi HOLLD OG BLO-
OD BIRTIR ÞAD EJGJ, Matth.
16. 17. Þo kann hun ad sijna Veg til ad leita
framar eftir ad þeckia Gud, og þad giorir
hun, ad þeir, sem henni vilia eigi sæta, hafa einga
Afsokun a Doomsins Deigi.

333. Hvad er Gud?

Hann er ein Andlig, Oendanlig, Oransakan-
lig, og Omælanlig Vera, sin er Almatt[illegible]g, Al-
vijs, Allstadar nalæg, Good, Heilog, Myskun-
sem,

dom, Sañleiks-full, og Riettlaat.

334. Hefur þa Gud hverki Lijkama nie Mind, med þvi hañ er andlig Vera?

Nei, þvi Andi hefur hverki HOLLD NJE BEJN. Luc. 24. 39.

335. Þvi talar Ritningiñ þa uñ Guds Augu, hañs Hendur, ellegar adra Limu?

J þvi hagar sier Andi Guds, eftir vorum mañligum Skilningi, og meinar fyrir þessa Limu, Verkan.r og Eiginlegleika Guds; so sem fyrir Augum hañs Vijsdoom, fyrir Hendurnar hañs Kraft (og so fram̃veigis.)

336. A hvad miñir mig Guds andliga Vera?

A þad, ad Gud, sem er eiñ Andi, hañ æ i ANDA OG SANNLEJKA ad tilbidiast. Joh. 4, 24.

337. Hvad skilur þu fyrir þa Guds Eiginlegleika, sem hier voru fyrir framañ upptaldir?

Hañs Almætti er, ad hañ gietur alla Hluti giordt; Alvitska, ad hañ sier og þeckir alla Hluti; Allstadar Nærlægd, ad hañ er hvergi inniluktur nie utibirgdur, helldur allstadar nælægur; Giædska, ad eckert er Jllt i honum, og ad hañ vill oss hid besta; Myskunsemi, ad hañ aumkast yfir Eymd vora; Heilagleiki, ad oll Synd er laangt fra honum; Sañl.iki, ad hañ kañ

hverki

hverki ad Lÿwga nie Svijkia, og Riettlæti, ad ha(n)
vill straffa þad Vonda, eñ umbuna þad Good(a).

338. Hvad gietur Madur tekid sier til Aminn-ingar af Yfirvegan Guds Eiginlegleika?

Madur a ad bloggdast fyrir hañs allstadar Nærlægd og Alvitsku, eftirfilgia hañs Heilag-leika, lata sier ganga til Hiarta hañs Giæd-sku og Myskunsemi, treysta uppa hañs Almætti og Sañleika, og lata hañs Riettlætis Jhug-an hallda sier frá ollu Vondu.

339. Hvada Huggun gietur Madur tekid sier af Yfirvegan Guds Eiginlegleika?

Par af hofum vier storra Huggun, ad Gud, eftir siñi allstadar Nærlægd og Alvitsku, sier vo(r)-rá Naud, og gietur hiálpad oss, af þvi hañ er Almattugur, og vill þad giora, þvi hañ er mysk-unsamur og goodur; og med þvi hañ er sañ-ord-ur og riettlatur, er þad vijst ad hañ gierir þad, fyrst hañ hefur lofad þvi, þegar vier i Trwñi hiar-tanliga leitum til hañs.

340. Hversu margir Gudir eru til?

Ecki utañ einasti eiñ Gud.

5. B. Mos. 6. 4. Heyr þu Israel, Drottiñ Gud vor er EJNN EJNUNGJS Drottiñ.

341. Hvernig hefur sa Guddoomliga Vera op-inberad sig i Ritningarinnar Ordum?

So sem ein einasta Vera, Fadir, Sonur, og
heilagur Andi, hverier þo allir eru eitt, og kallast
heilaga Preñing. 1. Joh. 5. 6. Þrijr eru
þeir sem Vitnisburdiñ giefa a Himni, FADIRJNN,
ORDID OG HEJLAGUR ANDJ, og þeir ÞRJ-
R ERU EJTT. Sia Matth. 3. 16. 17. Cap.
28, 19. 2. Cor. 13. 13.

342. Kuñum vier vel med vorri Skinsemi ad
skilia, ad Gud sie Eiñ, og þo þeiñig Preñur?

Nei, þvi þo þad sie eigi i mooti vorri Skinsemi, geingur þad þo lꜵngt yfir hana, þar fyrir er þad ein Hofud-Grein Trwariñar, eñ ecki Skinsemiñar, og Gud væri eigi Gud; ef vor Skinsemi giæti skilid ad ollu, hvernig hañ væri.

343. Eru þa þau Ord: Gud Fadir, Sonur, og heilagur Andi, einasta þriu adgreind Nofn, edur Eigiñligleikar i Gudi, og ecki neitt añad?

Ad vijsu er þad meir eñ einber Adgreining Nafnaña, edur Eigiñligleikaña, þvi sierhverri Persoonuñi leggst nockud þad til sierdeilisliga, sem eigi kiemur odrum vid.

344. Hvar i er þessi Adgreining iñifaliñ?

Ecki i Veruñi, so sem adur er sagt, helldur i vissum Persoonuligum iñvortis Verkum, sem koma hverri eiñi Persoonu vid ut af fyrir sig, sem er: Fadiriñ, sem er af eingum, gietur Soniñ fra Eylijfd, Sonuriñ verdur gietiñ af Fod-

urnum

urnum, og heilagur Andi framgeingur af þeim báðum. Allt þetta eru din þiettir Trwarinnar Leyndardoomar, sem vor Skinsemi eigi fær rannsakad. Sia Psl. 2, 7. Joh. 15, 26. Rom. 8. 9.

345. Er Fadirinn elldri edur ypparligri enn Soninn, og Sonurinn elldri edur ypparligri, enn heilagur Andi?

Nei, þeir þrijr eru Eitt, og þess vegna er einginn þeirra í Veru og Tign, ædri nie eædri, helldur enn annar, helldur eru þeir fullkomliga jafnir.

346. Hvad fyrir Verk eru þad ønnur, sem tileinkast sierdeilisliga hverium fyrir sig?

Fødurnum tileinkast Skopunin, Syninum Endurlausnin, og heilogum Anda Helgunin; þo eru þeir allir samverkandi þar í, og einginn af þeim er utilucktur í þeim Verkum, sem vidvijkia Heiminum.

347. Hvar er talad í Frædunum um Skopunina?

Í Fyrstu Greininni.

## Ut af Fyrstu Grein Trwarjaatningarinnar.

348. Hvad er ad skapa?

Þad er ad giøra eitthvad af eingu edur ohentugu Efni. Ebr. 11, 3. Fyrir Trwna undirstondum vier Heiminn giørdan vera fyrir Guds Ord, OG ALLT ÞAD HVAD SIJNILIGT ER, ER ORDID

DID AF EINGU.

349 Hvad hefur Gud skapad?

Himin og Jord og allt þad sem þar er iñi, so sem Sool, Tungl, Stiornur, Plaanetur, Hofud-Skiepnur, Dijr, Fugla, Fiska, Orma, og Otal Fleida af odrum Hlutum, sem þiena til Guds Dijrdar, eñ oss til Nytsemdar, þott vier eigi þeckium þad allt. 1. Mos. 1.

350. Var Gud marga Daga ad skapa Heimiñ?

J Sex Daga, og aa þeim siotta skapadi hañ Mañiñ.

351. Helldur Gud þeim Hlutum eñ nu vid Magt, sem hañ skoop i Ondverdu?

Jaa vissuliga.

Ebr. 1, 3. Hañ BER ALLA HLUTI med sijnu kroftuga Ordi. Ps. 104, 27. 30.

152. Til hvers eiga þessi Sañindi ad uppvarfa þig?

Til þess, ad dijrka Gud i ollum Hlutum, og foornfæra sialfañ mig honum, med ollum Hlutum sem af honum eru, og fyrir hañ vidhalldast, og standast. 1. Cor. 10, 31.

353. Er þad þa Gud alleina sem vidhelldur ollum Monum, og forsorgar þa?

Jaa, sierdeilis medtaka Meñirnir af Guds Hendi oll sijn Upphelldis Medol, hvert sem þad er Matur edur Dryckur, Klædi edur Skiædi, etc.

354. Eñ gieta ecki þeir Ríjku sialfir veitt sin Uppheldi og Forsorgun?

Nei, ecki eitt Augnablik, þvi þeir hafa ecki ert utañ af Hendi Guds, sem giefur og teku burt þa hañ vill; Undir hañs Vilia og Bles an er þad allt samañ komid.

1. Cor. 3, 7. So er nu HVERKI SAA NO KUD SEM PLANTAR, NIE HINN SE VÖKVAR, helldur Gud sa sem Frioosgunina gief

355. Vidhelldur Gud lijka ogudligum Mönr

Jai, þvi hañ lætur sijna Sool uppreña y vonda og gooda, og lætur rigna yfir riettlá og raanglaata. Matth. 5, 45.

356. Fyrir hverium ber Gud hellst Umhyggiu

Fyrir sijnum trwudum Bornum.

1. Pet. 3, 12. Augu DROttins LJJTA til þeir ra RJETTLAATU.

357. Stiirir þa og vidhelldur Guds Forsi ollum Hlutum ödrum i heilum Heiminum?

Jai,

Post. Giorn. B. 17, 28. Þvi ad vier LJFUM HRÆRUMST, og ERUM J HONUM.

358. Stioornar Forsioon Guds Moñunum lijka i þeirra Syndum?

Guds Forsioon stioornar eingum til ad sy ga, þvi þad giorir þeirra eigiñ vondur Vi hvert a mooti Guds Vilia; Eñ Gud umt ur, ad þeir syndgi, hañ setur þeirra Synd

Takmork, og stiornar so med sijnum Vijsdoomi Atdrifum Maalefnaña, AD ALLIR HLUTIR VERDA AD PJENA PEIM TJE GOODA SEM HANN ELSKA, Rom. 8. 28. Og þetta siaum vier a Dæmi Josephs.

359. Eru þa Guds Skiepnur, edur skapadir Hlutir margslags?

Yfir Hofud eru þær Tveñslags, sem eru synligar og Osyniligar.

360. Hveriar eru þær vegligustu osyniligu Skiepnur?

Einglarnir; og merkir þetta Nafn Sendiboda, og þar fyrir verdur þad lijka tillagt Christo, þeim Oskapada Eingli, sem sendur er af sijnum Fodur, og opiñberadist oft so i Gamla Testamentinu. Siaa 1. Mos. 22. 11. 2. Mos. 3. 2.

361. Hvad margslags eru Einglarnir?

Tveñslags, goodir Einglar, sem eiginliga eiga þetta Nafn, og vondir Einglar, sem añars eru kalladir Dioflar.

362. Hvad eru þeir goodu Einglar?

Þeir eru heilagir, visir, fliootir og eflugir Andar, sem ætijd losa Gud, og giora þad hañ þeim befalar, og þioona sierdeilis þeim trwudu. Ebr. 1. 14.

363. Hvad eru þeir vondu Einglar, edur Dioflarnir

 Þeir

Þeir voru i Ondverdu af sama Tagi sem þeir goodu, eñ eru fyrir Dramb og Ohlijdni fraa Gudi fallnir, og eru ordnir bædi Guds og Maña orgustu Ovinir, hverra Hijbijli ad er Helvijti.

2. Pet, 2. 4. Gud hefur eigi hirmt EINGLUNUM, ÞEIM SEM SYNDGUDUST, helldur hefur STEIPT ÞEIM med Hleckium Myrkraña TIL HELVIJTIS, og ofurgiefid þaa, þad þeir til Doomsins vardveittust.

364 Hveriar eru þær helldstu Skiepnur medal þeirra syniligu Skiepnaña?

Meñirnir.

365. Hvad er Madurin?

Ein miog veglig Guds Skopun, og eiñ Herra fir ollum odrum Dijrum.

366 Eru margir veruligir Partar einar Mañeskiu?

Tveir, sem er Saal, og Lijkami.

367. Hvad er Saal Mañsins?

Hun er eiñ Osyniligur og Odaudligur Andi, sem er adskilianligum Kroftum giæddur, sierdeilis med Mañ-Vitinu, til ad skilia; og Vilianum, ad utvelia, edur hafna.

368. Hvad er Lijkami einar Mañeskiu?

Saalariñar Hws og Hijbijli, samsettur med ad-skilianligum Limum, utbwiñ med sijnum Skilningarvitum, sem eru: Heyrnin, Siooniñ Smeckuriñ, Ilmaniñ og Tilfiñingiñ.

369. Hvert er vegligra. a Mañeskiuñi, Saaliñ edur Lijkamiñ?

Saaliñ er miklu vegligri eñ Lijkamiñ, þvi hun er eiñ odaudligur Andi, og kañ od hafa Samkvæmi med Gudi, og stioorna Lijkamanum, og hvert sem Saaliñ fer, þar filgir Lijkamiñ uñi sijd ir a eftir, hvert sem er til Himna-Rijkis edur Helvijtis.

370. Hversu marga Meñ skapadi Gud i Ondverdu? Eiñ Kallmañ af Jardar Leiri, er nefndist Adam, og eina Kvinu af Adams Rifbeini, þa hañ svaf, sem kalladist Eva. 1. Mos. 2. 7. 22.

371. Stoodst þa eins a fyrir þeim fyrstu Moñum þa þeir voru first skapadir, sem nu fyrir oss Nidium þeirra?

Nei, þeirra Stand var laangtum farsælla.

372. Er þa Mañsins Stand margfalldt?

Ferfalldt, sem er: (1. Sakleysisins Stand. (2. Syndariñar Stand. (3. Naadariñar Stand. (4. Dyrdariñar Stand, fyrir þa sem saaluhoolpnir verda, eñ Fordæmingariñar Stand fyrir þa sem fortapast.

373. Hvad var Sakleysisins Stand?

Þa Madur var i hiñi ædstu Farsæld, an Synda og Mootlætis, skapadur riett eftir Guds Mind 1. B. Mos. 1. 27. Gud skapadi Mañ-iñ EFTER SJNNJ MJND, eftir Guds Mind

skapadi hañ hañ, og hañ skapadi þau Karlmañ og Kvíñu.

374. Hvad var þessi Guds Mind i Mañinum?

Yfir Hofud ad seigia: ein Lijking og Sinnis-lagsins Samhliodan vid Gud sialfañ. Eñ sierdeils var hun Lioos Guddomligrar Vitsku i Skilninginum, sem þeckti Gud riettiliga, og allt þad sem hañ hafdi skapad; Ein oflug Elska i Viliianum, sem hiellt sier fast vid Gud; Eftirlaungonirnar og Sinisins Tilhneiginaar voru i heilegu Lagi. Lijkamiñ med sijnum Limum brwkadist og riettiliga þa: Og þar fyrir var lijka i Samvitskuñi eitt Fridar- og Fagnadarfullt Himnerijki.

375. Var Maduriñ þessa Guds Mind ecki sierdeilis i Salnñi?

Ad vijsu; þo hafdi Lijkamiñ þar af og so stoor Giædi, sem var, fullkomiñ Heilbrigdi, Odaudligleiki, og Yfir-Drottnan yfir ollum Skiepnum; Hañs Heimili var hin vegliga Paradijs, saa lystiligi og Avaxtarsami Alldingardur.

376. Er nu eingiñ Madur framar i þessu Saklevsis Standi?

Nei ! Æ vi midur! þad kieñir Reynslañ, ad Adam, og med honum oll hañs Born, eru falliñ ur Saklevsisins Standi i Syndariñar Stand.

Spek. B. 2. 23. 24. Gud skapadi Mañiñ til eilijfs

Lijf-

Lijfs, og giordi hañ ad einu Bilæti, og ad hañ skylldi vera lijkur þvi sem hañ er. ENN FYRIR DIOFUL-SINS OFUND ER DAUDINN KOMINN I HEIMINN.

377. Hvernig skiedi Fall vorra fyrstu Forelldra?

Þau lietu Slægd Diofulsins tæla sig til ad eta af Skilnings-Triesins Avexti, hvert ed var þad einasta sem Gud hafdi þeim streingiliga bañad.

378. Var þa su Synd so hræðaliga stoor?

Jaa vissuliga; þvi hun var iñifalin eigi alleinasta i þeirra utvortis Nautn af Eplinu, helldur sierdeilis i þvi, ad þeirra Hiortu mootviliugliga viku fraa Gudi til sialfra þeirra, Heimsins, og Guds Ovinar, Diofulsins; og þad, þa þau voru so aa sig komiñ, ad Guds Mind gaf þeim fullkomiñ Kraft, ad standa aa mooti ollu Illu.

379. Hvad hlautst þa af þessu Synda-Falli?

Allt Illt: Guds Mind tapadist, eñ Diofulsins herfiligasta Lijkina og Yfir-Raad komu i Stadiñ, med Fordiorfun bædi Saalar og Lijkama, þad er i stuttu Maali: Daudiñ, saa andligi, Lijkamligi og eilijfi.

1. B. Mos. 2. 17. A hverium Deigi sem þu etur af þvi, þa SKALLTU DAUDA DEYA.

380. Hverju hefur þa Syndiñ sierdeilis utleikid Mañsins Saalu?

1.) Hun hefur blindad Skilningiñ, sem er ord

iñ ad hælfu leiti blindur i þeim Hlutum sem Mañinum viðvijkia, og sjoonlaus i þvi sem Gudi viðvijkur; Jaa, fwo til allrar Villu og ræungra Dooma, um þad sem Gudi tilheyrir.

2.) Hun hefur svipt Viliañ sijnum Heilagleik, og giordt þañ Haturs-fullañ við Gud.

3.) Hun hefur fordiarfad Tilhneigingarnar og Siñisins Hræringar, og þar med eiñig Frid Samvitskuñar. Rom. 8. 7. HOLDYGJAN ad vera FJNNADUR er FJANDSKAPUR i i giegn Gudi. Eph. 4, 18. 1. Cor. 2, 14.

381. Hvernig hefur Syndiñ sier i Lagi utleikid Mañsins Lijkama?

Hun hefur giordt hañ syndugañ, naudlijdandi, forgeingiligañ, dauðligañ, og otelliandi Meinsemdum undirvorpiñ.

382. Hefur sa fallni Madur þa i sijnu naatturligu Standi ecker Sialfrædi til þess gooda?

Ecki til þess andliga Gooda, þvi þad er honum aldungis a mooti; Eñ Sialfrædi hefur hañ til goodra Hluta, þeirra sem Naatturuñi viðvijkia, og utvort's goodra Jdkana, so sem ad les og sijngia, og ferdast til Kyrkiu.

383. Er þa Guds Mind soleidis burtnumiñ og tapnd vegna Syndariñar?

Jaa.

384. Faaum vier hana þa alldreigi meir?

Ju Guds Börn sem endurfœdast og endurnijast til þessarar Myndar, fa hana aftur; þo hun sie eigi fullkomin hier i Heiminum, eñ i Himninum munu þau hana olldungis fullkomna a sier bera.

385. Hvert eru allir Meñ ordnir Hlut-takendur i þessu fyrsta Synda-Falli?

Jaa, vissuliga. Rom. 5. 12. Syndiñ er fyrir eiñ Mañ komiñ i Heimiñ, og Daudiñ fyrir Syndina, og so HEFUR DAUDINN TIL ALLRA MANNA GIEN INNPREINGT, af þvi ad allir hafa syndgad.

386. Af hverium er nu Syndiñ og allt þad Illa iñkomid i Heimiñ?

Af Dioflinum, og af þvi Maduriñ misbrwkadi siñ Friivilia.

387. Er Gud þa ecki Orsök til Syndariñar?

Nei; ad hugsa þad edur tala, væri Lijgl-full Gudlöstun. Sir. 15. 12. Þu þarft ecki ad segia: Hafi eg rangt kient, so hefur hañ svikid mig, þvi HANN ÞARF EINKIS OGUDRÆKINS VID.

388. Gat Gud þa ecki hindrad Synda-Fallid?

Ecki nema hañ hefdi svipt Meñina þeirra Friivilia; og þañig a mooti sijnum alvijsa Asetningi umbreitt þeim i adrar Skiepnur, hverjar ecki gætu sijnt nockur Hlijdnis Merki.

389. Hvad hafa Meñirnir forþienad med Synd sijns Friivilia?

Guds Reidi og Oblijdu, tijmanligan Dauda, og eylijfa Fordæming.

390. Eiga þa allir, sem æfram hallda i þeirra Synda Standi og Nattúrligri Spillingu, ad lijda soddan Straff eylijfliga?

Jaa. Joh. 3. 3. NEMA SO SIE, AD NOCKUR VERDI AD NIJU FÆDDUR, han kan eigi ad sia Guds Rijki.

391. Vill þa Gud læta Menina tortijnast so eylijfliga?

Nei, han hefur af sinni Myskunarrijku Elsku ælyktad ad medtaka þa aftur til Nadar, og koma þeim ur Syndarinar Standi i Stand Nadarinar. Joh. 3, 16. SO ELSKADI GUD HEIMINN, AD HANN GAF UT SIun EIN-GIETINN SON til þess, ad allir þeir sem a han trwa fyrirfarist eigi, helldur ad þeir HAFI EILIFT LIJF. 1. Tim. 2, 4. GUD VILL AD ALLIR MENN VERDI SALUHOOLPNIR, og til Vidurkieñingar Sañleikfins komist.

392. Hvad er Nadarinar Stand?

Ein Sælubialplig Sameining og Forlijkun vid Gud, sem fyrir Christi Sakir endurfædir, m[illegible] sijnum Anda, þa syndugu Sælu, fyrirgef heñi heñar Syndir, iklædir hana Christi Riett læti, frijar hana fra Syndarinar og Satar Valdi, og dagliga endurnijar hana til Lijf

ingar

ingar siñar Mindar aftur.

Eph. 2, 4. 6. Gud, sa audugur er af Myskun, fyrir sina mikla Elsku, med hverri hañ elskadi oss, þa vier vorum daudir i Syndunum, HEFUR HANN GIORDT OSS LIFANDI J CHRISTO, (þviad af Nadiñi erud þier hialpligir vordnir). OG HEFUR UPPVAKID OSS MED HONUM, og SETTI OSS med honum i HIMNESKT ATHÆFI i Christo JEsu.

393. Hver hefur þa utvegad Mönnunum Guds Nad, so ad þeir mættu aftur faa Uppreisn af Fallinu, og komast aftur i eitt Saluhialpligt Til-Stand?

Pad hefur alleina Guds eigiñ Sonur Jesus Christur giordt, hver ed strax eftir Syndafallid var fyrirheitiñ, og i Uppfyllingu Tijmans sendur, öllum Heiminum til Saaluhiaalpar og Uppreisnar af Fallinu.

Rom. 5, 17. Þvi ef Daudiñ rijkti vegna eiñar Syndar fyrir eiñ, miklu meir munu þeir, sem ödlast Naad ariñar og Gaafuñar yfirfliootanliga Rægd til Riettlætisins, RIJKIA J LIFFINU FYRIR ÞAN EINA JESUM CHRISTUM. 1. Mos. 3, 15

394. Hvar læri eg þa nakvæmara ad þeckia elsku þeña dijrmæta Endurlausnara JEsum Christum?

J þeirri Añari Greiniñi, sem hlioodar um Endurlausnina.

## Ut af Añari Grein Trwarjaatningariñar.

395. Hvad er Jnnihalld Aññarar Greinarinnar?
Pecking og Lærdoomur um tvær Natturur þeirrar einu Persoonu Christi, um hañs þrefallda Embætti, tvøfalldt Stand, og sierdeilis þa dijrmætu Endurlausn vora fyrir hañ.

396. Ridur mieg mikid a þvi ad þeckia Christum?
Jaa. Þviad þar er ECKERT ANNAD NAFN giefid Mönnum, i hveriu oss biriar Sæluhioolpnum ad verda. Gb. Post. 4, 12. (Og) PAD ER EJLJFFT LJFF, ad þeir ÞECKJ ÞJG a eina ein saña Gud, OG ÞANN ÞU SENDJT JESUM CHRJSTUM, Joh. 17, 3.
1. Joh. 5, 11. 12. Gud hefur giefid oss eiliijft Lijf, OG ÞETTA LJFF ER J HANNS SYNJ, hver sem GUDS SON HEFUR, SAA HEFUR LJFJD, hver hañ HEFur EJGJ GUDS SON SAA HEFUR EJGJ LJFJD.

397. Hver er JEsus Christus?
Guds og Mariu Sonur, sañur Gud og l ka sañur Madur.

398. Er þa Christur tvær Persoonur?
Nei.
1. Tim. 2, 5. Þar er EJNN GUD, og EJNN MEDALGANGARJ milli Guds og Maña, sem er sa. Madur CHRJSTUS JESUS.
En i þeirri einu G..ddoom.lgu Persoonu Christi eru tvær Natturur, nafnkiemli, a sameingu og sameinadar, sem er su Guddoomliga og Mañ

Mañdoomliga Nattura.

399: Hafa þessar tvær Natturur ætijd verid sameinadar i Christo?

Nei, þa Guddoomligu Natturu hefur hañ af Fodurnum fraa Eylijfd. Ps. 2, 7. Þu ert miñ Seaur, IDAG FÆDDI EG ÞIG.

Eñ þa Mañdoomligu hefur hañ uppaa sig tekid af siñi Moodur Mariu.

Gal 4. 4. Þa Uppfylling Tijmans var komiñ, utsendi Gud siñ Son, FÆDDAN AF KVINNU, og Logmaalinu undirvorpiñ.

400. Hvar af beuijsar þu ad Christur sie eiñ sur verulegur Gud?

Þad bevijsast af hañs eylijfri Fæding af Fodurnum: Og af hañs Guddoomligum Eiginligleikum og Verkum. Þar ad auk vitnar Ritningiñ uñ þad med lioosum Ordum, sierdeilis;

1. Joh. 5. 20. Vier erum i hinum sañarliga hañs Syni JEsu Christo, þessi er SANNUR GUD og eylijft Lijf.

401. Giefur þu eñ framar bevijsad, ad Christus sie Gud og Madur i eiñi Persoonu?

Jaa, Joh. 1 14. ORDID VARD HOLD og bygdi med oss. Rom. 9. 5. Hverra FEDUR eru og þeir, sem Christur er UT AF KOMINN EFTIR HOLDINU, sa sem ad er GUD yfir ollum Hlutum blessadur ad eylijfu.

402. Hvers vegna vard Guds Sonur ad verda sañur

saññr Madur?

So ad hañ kyñi vegna vor Mañaña, ad smacka Daudans Beyskiu, i vorri Natturu, sem var daudlig.

403. Hvers vegna vard hañ þar med ad vera saññr Gud?

So ad hañs Daudi og Foornfærlngar Blood, kyñi ad hafa oendanligañ Kraft til ad fridþægia.

404. Er JEsus af Nazareth sa sañi Messias og Fyrirheitni Heimsins Endurlausnari?

Jaa, þvi oll þau Kieñiteikn sem Ritningin leidir til um þañ saña Messiam, fiñast hiaa JEsu af Nazareth. Hañ er fæddur AF JUDA ÆTT-KVJSL, 1. Mos. 49. 8. 10. og AF DAVJDS ÆTT, 2. Sam. 7. 12. J BET-HLEHEM DAVJDS BORG, Mich. 5. 2. af MEYU, Es. 7. 14. Siaa framar Hagg. 2. 7. 9. Dan. 9. 24. Jaa, allt þad añ-ad sem spaad er um Nidurlæging og Upphefd þess saña Messiæ, hliidir olldungis og alleinasta uppaa vorn JEsum af Nazareth. Ps. 22. Es. 53.

405. Af hverium var JEsus fæddur?

Af Mariu, eiñi hreiñi og heilagri Jungfru, sem ad soñu var trulofud Joseph JEsu Foostur-Fodur, eñ kiendi þo eingañ Mañ.

406. Er hañ þa eigi gietiñ og fæddur af syndngu

ugu Sædi?

Nei, þvi jafnvel þo Maria hefdi Uppruna Syndina i sini Nattúru, þa gieck hun þo ecki ad Erfd til Christum, helldur var hun i hans Gietnadi uthreinsud fyrir hellagan Anda.

Luc. 1, 35. HEILAGUR ANDI MUN KOMA YFIR PIG, og Kraftur hins Hærsta mun yfirskyggia þig, af þvi, ad PAD hid HELGA, sem af þier mun fædast, skal nefnast SONUR GUDS.

407. Hvernig kan Madur ad fæia sier i Nyt Umþeinking Jesu heilogu Mandooms-Tekningar?

Sa yndisligi Sanleiki fær huggad oss, med Fullvissu um alvarliga Elsku Guds til vor aumra syndugra Manna; Og um þad, ad vier sienn sannarliga, og fullkomliga fridþægdir, og um þan stoora Gefugleika og ypparliga Vegsemd, sem vor Nattura er upphafin til, med Sameiningunni vid Gud i Persoonu Christi, so ad vi[illegible] og þess vegna eigum þvi helldur ad hreinsa [illegible] af Saurugleik Holldsins og Andans.

408. Hvada Pijding hafa þau tvø Nøfn þi[illegible] Frelsara?

1.) Nafnid JEsus þijdir Frelsara.

Matth. 1, 21 Hun mun Son fæda, og hans Na[illegible] skaltu JESUS KALLA, þviad han mun FRELS[illegible] [illegible]tt Foolk af þeirra Syndum.

2.) Nafnid Christur er sama sem Messias

og þi.dir Smurdur.

409. Med hveriu var Christur smurdur?

Med Heilogum Anda og Krafti, Post.G.b. 10. 38. og þad aan Mælinaar, J. h. 3. 34. Su Guddoomliga Natturan meddeildi þeirri Mañdoomligu sijna Guddoom'iga Eiginligleika, i þvi Augnabliki, sem su Persoonuliga Sameining milli beggia Natturana skiedi.

410. Eftir hverri Natturuñi var Christur smurdur?

Eft'r þeirri Mañdoomligu þvi su Guddoomliga h fdi alla Hluti fraa Eylijfd.

411. Brukadi Christur alltijd sijna Guddoomliga Eiginlighleika?

J sijnu N durlægingar Standi lagdi hañ nidur ad brwka þa, ad undanteknu þvi, þa hañ med Kraftaverkunum villdi sijna, hver hañ var.

412. Hvers-vegna skylldi vor Frelsari vera Drottins Smurdur, og hafa Guddoomliga Eiginligleika?

Til þess, ad hañ kyñi ad fram'væma so sitt þrefallda Embættl, nefniliga: Pad Kieñimañliga, Spaamañliga, og Konungliga, þvi til soddañ Eñbætta voru Meñ iñvijadir med Smurning i gamla Testament'nu. Petta hañs þrefallda Embætti nefnist añars einu Nafni Medalgaungu Embætti hañs.

413. J hveriu er iñifalid þad ypparsta Prests

Em-

Embætti Christi?

J þvi, ad hañ hefur eitt Siñ sialfañ sig a Krossinum Gudi offrad fyrir vorar Syndir, og hañ bidur eñ aan Aflaats fyrir oss, oa blessar oss.

Ebr. 7, 24. 26. Eñ þessi, fyrir þvi hañ eilijfliga blijfur, þa hefur hañ oforgeingiligañ KJENNJ-MANNSKAP, þar fyrir kañ hañ og einig þa ætijd SAALUHOOLPNA AD GJORA, sem fyrir hañ koma til Guds, og hañ lifir æfinliga, og BJDUR FY-RJR ÞEJM, þviad slijkañ BJSKUP skylldum vier hafa, sa sem væri heilagur, saklaus, oflekkadur, syndugum frastiliñ, og hærri eñ Himiñiñ er.

414. Hvar i er iñifalid Christi Spaamañliga Embætti?

J þvi ad kieña oss Guds Villa til vorrar Saaluhiaalpar: og þad giordi hañ fordum i elgiñ Persoonu sialfur, eñ nu giorir hañ þad fyrir siñ Anda og sijna Þienara.

Joh. 6, 14. Þessi er sañarliga sa SPAAMAD-UR, sem i Heimiñ skal koma.

415. Hvar i er iñifalid Christi Konungliga Embætti?

J þvi, ad stioorna, vidhallda, og vernda sijna Trwada fyrir þeirra Ovinum.

416 Hefur þa þessi Kongur og so eitt Kongs-rijki?

Jaa, eñ þad er eitt andligt Rijki, sem er hañs Kirkia edur Naadar Rijki hier a Jordunñi, ur

hveriu

hveriu hañ flytur uñ siidir sijna Trwada til Dijrdariñar Rijkis a Himnum. Joh. 18, 36. MJTT RJJKJ er ecki af bessum Heimi.

417. Til hvers a Yfirvegan Christi Embætta ad upporva þig?

Til ad elſka hañ sem miñ ædsta Prest og Endurlausnara, ad trwa honum so sem mijnum Spaamañi, ad heidra hañ og hlijda honum, so sem mijnum Konungi. Þar med kañ eg og lijka ad hafa stærstu Huggun af hañs Embættum.

418. Hvernig taka þeir Trwndu Nafn af Christo?

Þeir kallast Christnir, þad er, smurdir; Þvi hañ hefur smurt þaa med sijnum Anda.

1. Joh. 2. 20. ÞJER HAFJD SMURNJNGJNA af þeim sem heilagur er, og heckid allt.

419. Eru þa allir Meñ i þessum Christnu Londum þvilijkir Christnir?

Nafnid hafa þeir ad soñu, eñ Smurningariñar Anda og Naad vantar þaa flesta.

420. Eru þa þeir sañ-Christnu og so smurdir til andligra Kieñimaña, Konga og Spaamaña?

Jaa, og þad audsyna þeir, sem Kieñimeñ, i þvi, ad foornfæra sig Gudi (giefa sig Gudi til Þioonustu) ad blessa og bidia fyrir sier og ødrum. Sem Kongar, i þvi, ad stioorna siaalfum sier fyrir Guds Anda Hialp; samt eiñig i þvi, ad strijda a mooti sijnum andligum Ovinum.

Sem Spamañ, i hvi, ad kieña, umvanda, og miña og hugga sialfa sig og adra.

421. Maa þa hver eiñ Christiñ, 'sem eiñ andligur Prestur, taka uppa sig opinbert Kieñimañs Embætti?

Nei, þar til heyrir Guds Kallan, fyrir Yfirvalldsins Tilhlutan, eñ þad er allra Christiña Kall og Skylda, ad kieña, hugga, og uppbyggia hver añañ i Dagligri Umgeingni, og þa Tækifæri giefst. 1. Theß. 5. 11. Fyrir þvi AMINNI HVER YDAR ANNANN INNBYRDIS, OG LEIDRIETTI HVER ANNANN INNBYRDIS, so sem ad þier eiñig giørid. Og v 14. Vier bidium ydur, kiærir Brædur, ad þier AAMINNID ORAADVANDA, HUGGID Istødulitla, UMMLIDID breyska, VERID POLINMOOD, IN hver vid añañ. Ebr. 3. 13. AAMINNID YDUR SIALFA alla Daga, so leingi sem þad i Dag kallast, ad þar eingiñ a MEDAL YDAR forherdist af Svikrædi Syndariñar.

422. Hvert af þessum þremur Embættum hliðir eiginliga til vorri Endurlausn?

Hañs ypparsta Prests Embætti, eftir hveriu hañ er vor Fridþægingar og Talsmadur: Þo verdur eingiñ medtekid Christum sem siñ yppar[sta] Prest, og ordid hluttakandi i hañs Endurlausn, utañ hañ medtaki hañ eiñig, og fylgi honum so sem siñum Spamañi og Kongi. 1. Cor. 1. 30.

423. Med þvi ad Christi ypparsta Prests Embætti, er Grundvöllurin til vorrar Sáluhiálpar, þa seig mier ómægianliga og skilianliga, allt þad sem heyrir til Lærdoomi vorrar Endurlausnar?

J þessum Lærdoomi hefi eg ad þeckia gloggt, ÞANN sem hefur endurleyst oss; ÞAA sem hañ hefur endurleyst; Þad MEDAL sem hañ endurleysti oss med; Þad FORNDA sem hañ hefur endurleyst oss frar, og TIL HVERS, hañ hefur viliad oss endurleysa.

424. Er eigi þetta utmaalad i Catichismo?

Jw, þess hld stuttsta Jñihalld er iñifalid i þessum Ordum: AD HANN SIE MINN DROTTINN, SEM MIG GLATADANN OG FYRIRDÆMDANN MANN HEFUR AFREKAD. etc. (Siaa adra Grein Terwarjaatningar.)

425. Hver hefur nu Endurleyst oss?

Vor DRottiñ JEsus Christus, Guds og Mariu Sonur, sañur Gud og sañur Madur, hefur endurleyst oss, og þad eftir bádum Náttúrunum.

Gb. Post. 20. 28. GUD hefur UTVEGAD Sofnud med siinu EIGINN BLOODI.

426. Hafa þa eigi Fadiriñ og H. Andi endurleyst oss?

Þeir hafa ad soñu elskad oss, og framsilgt

vorri

vorri Endurlausn. Joh. 3. 16. 1. Cor. 6. 11. Eñ þeir kuñu ecki ad utrietta Endurlausnar Verkid sialfst, sem skiedi med Pijnu og Dauda.

427. Þvi gatu þeir þad ecki?

Þvi Fadiriñ er alleina Gud, sem eigi kañ ad deya, so er lijka Heilagur Andi; Eñ Sonuriñ er sañur Gud og sañur Madur, sem er dauñ og hefur uthellt sijnu Bloodi, fyrir vorar Syndir.

428. Hvern hefur Christur Endurleyst?

Mig auman, glatadan, og fordæmdan Mañ.

429. Hveria Vissu hefur þu þar uñ, ad þu siert endurleystur?

Eg hefi þar þessa Vissu uñ, ad allir Meñ eru endurleystir, og eg so einig lijka i þeirra Tolu. 1. Tim. 2, 6. Christus JEsus hefur sialfañ sig utgiefid FYRIR ALLA TIL ENDURLAUSNAR.

430. Bevijsa þu mier eñ nu framar, ad allir Meñ sieu endurleystir fyrir Christum?

Rom. 5. fra 15. t. 21. Vers... Postuliñ St. Paull þad med m...
Uppreisningiñ edur Hialp...
eins vijda til, eins og F...
Adam, sem er til allra.

1. Joh. 2, 2. Hañ sami er H...
R VORAR SYNDIR, eñ eigi einasta f...
...ar (þad er þeirra Trwudu) helldur eiñig fyrir AL...
LAR VERALLDARINNAR. Item 1. T...

4. 10. Gud er FRELSARI ALLRA MANNA, en SIERDEILIS TRUUADRA.

431. Hefur þa Christur lijka endurleyst þa, sem med Ydrunarleysi og Vantrw steiþa sier sialfir i Fordæminguna?

Jaa. 2. Pet. 2, 1. Þeir afneita Drottni, sem þa hefur ENDURKEYPT, og munu yfir sialfi sig leida snøggva FYRIRDÆMING.

432. Med hveriu hefur Christur endurleyst oss?

Hverki med Gulli nie Silfri, helldur med sijnu heilaga, dijrmæta Bloodi, og sijnum o'[illegible]kvæmiliga og saklausa Dauda, jaa, ecki med Pijnunni alleina, helldur og so med sinni Hlijdni, og Logmaalsins Uppfyllingu.

1. Petr. 1. 18. 19. Vitid, ad þier erud ecki med forgeingiligu Gulli edur Silfri ENDURLEYSTIR, i fraa ydru Hiegooma Athæfi, eftir Fedranna Uppasetningi, helldur MED DIJRMAETU BLOODI CHRISTI, so sem hinns oflekkada og saklausa Lambs.

Rom. 5. Þviad lijka sem fyrir eins Manns O-hlijdni eru [illegible]argir syndugir vordnir, so verda og fyrir EINSHE[illegible]DNI MARGIR RIETTLAATIR.

43[illegible] [illegible] so stoor Naudsyn aa, ad brwka so dijrmætt [illegible]ai til vorrar Endurlausnar?

Jaa, [illegible] Christi Foornfæringar Blood var o-missandi til Hreinsunar vorrar og Fridþægingar.

Ebr. 9. 22. An BLOODS UTHELLINGAR skiedur EINGINN FYRIRGIEFNING.

434. Fraa hveriu Illu hefur Christur oss endurleyst?

Fraa

Fra Synd, fra Dauda, og fra Diøfulsins Valldi.

435. Hvernig hefur Christur frelsad oss fra Syndiñi? Med þvi mooti, ad

1.) Er Syndariñar Sekt og Straff burttekid.

1. Joh. 1. 7. Bloodid JEsu Christi Guds Sonar einsar oss af ALLRJ SYND. Col. 1. 14. J herium vier hefum Endurlausnina, fyrir hans Blood em er SYNDANNA FYRJRGJEFNJNG.

2.) Ad Syndariñar Magt og Yfir-raad err ostiñ. Ja, Syndariñar Root verdur u- ir upprætt i Daudanum.

Rom. 6, 14. Syndiñ mun EJGJ KUNNA AL ROTTNA yfir ydur, med þvi ad þier erud eigi ur Logmaalinu, helldur undir Naadiñi. 1. Pet. 2. Christur hefur vorar Syndir borid a siinum Lik- ia uppa Tried, so ad vier i FRAA SYNDUN- N DEYDDJR, LJFDUM Riettlætinu, fyrir ers Beniar þier erud heilbrigdir vordnir.

436. Kañ eg ecki noogliga ad vera frelsadur ra Straffi Syndariñar, þo eg sie bundiñ undir heñ- r Yfirdrottnan?

Nei, þad siina adrir framfærdu Ritning- riñar Greinir; Og allir ydrunarlausir fara vill i þvi, ad þeir rangfæra Evangelium, a- þañ Haatt, ad þeir vilia nyta sier þad til holld- ra Frijheita; Eñ eigi til Frelsis fra Syndiñ

siaußri (i hverri þeir vilja þiogna í andlegum Dauda) , helldur frá Syndarinñar Straffi , frá hveriu alleina , þeir vilja frijast fyrir Christum.

437. Hvernig hefur Christur endurleyst oß frá Daudanum ?

So , ad sa tijmanligi Daudi er ordiñ Jñgaangur til Lijfsins , eñ sa andligi Daudi hefur mist sijna Magt , og hañ eilijfa Dauda er eigi meir ad ottast fyrir þeim trwendu.

Joh. 11, 25. 26. Eg em Upprisañ og Lijfid , hver hañ trwir á mig , SAA MUN LIFA ÞOOTT HANN DEYJ ; og hver hañ lifir og trwir á mig , SAA SKAL ALDREJ DEYA.

438. Hvernig hefur Christur frelsad oß frá Diöflinum og hañs Ryki ?

So ad hañ hefur einga Magt yfir oß , helldur kuñum vier ad veita honum Mootstedu , og þurfum ecki ad hrædast hañ þegar vier þionum Gud. Ebr 2, 14. Uppá þad , ad hañ MÆTTJ NIDUR ÞRYKJA fyrir Daudañ , ÞAA ÞEJM , SEM DAUDANS MAGT HAFDJ , þad er DJÖFLINUM , og endurleysti þa , sem fyrir Ogn Daudans hlutu um allá Æfi i Þrælkan ad vera.

439. Til hvers hefur Christur endurleyst þig ?

Uppá þad eg skuli vera hañs eiginlegur , og so sem eigiñ Eign , lifi sijfellt undir hañs Walldi , i hañs Ryki , og þioni honum.

440. Giefur þa þetta Christi Endurlausnar-Verk þier olldungis eckert Leyfi ad, þionna Syndinni, Dioflinum og Verolldinni, edur ad vera þeirra Eign?

Nei, þad er ad stela fra Christo, mïnnum rietta Herra, þvi sem hann hefur so dijrt keypt, sier til Eignar. Luc. 1, 74. 75. Ad vier leystir af Hendi Ovina vorra, ÞIONUDUM HONUM an Otta, alla vora Lijfdaga, I HEILAGLEIKA OG RIETTLÆTI, sem honum þocknast. Rom. 6. 18. Fyrst þier erud FRELSADIR af Syndinni, þa erud þier ordnir RIETTLÆTISINS ÞIONUSTU-MENN. Tit. 2. 14. JEsus Christus hefur sialfann sig giefid ut fyrir oss, uppa þad hann endurleysti oss i FRAA ÖLLU ORJETTLÆTI, og hreinsadi sier sialfum Foolk til Eignar, þad KOSTGIÆFID VÆRI TIL GOODRA VERKA.

441. Er þad þa ad sia a Heimsins Bornum, ad Christur hafi þau endurleyst?

Nei, þvi þau hafa a nij burt seldt sig Guds Ovinum, Syndinni og Dioflinum.

442. Hefur Christur vor Endurlausnari alltijd verid i einu sama Standi?

Nei, hans Stand er Tvennslags, sem er: Nidurlægingar Stand, og Upphafningar Stand. Um bædi talar Paulus:

Philipp. 2. 9. 11. Hver þo ed hann være i GUDS MIND, hiellt hann þad þo ecki fyrir Ran, GUDI

LJIKUR AD VERA, helldur MJINKADJ hañ sig sialfañ, og TOOK A SJG MJND EJNS PJOONS, vard lijkur ødrum Møñum, og ad Hegdan fundiñ sem Madur, LJTILLÆCKADJ sig sialfañ, og vard HLJJDUGUR ALLT TJL DAUDA, jaa, allt til KROSSJNS DAUDA. Fyrir þvi hefur Gud UPPHAFJD HANN, og gaf hønum NAFN, þad YFJR ØLLUM NØFNUM ER, so ad i NAFNJ JESU, SKULU sig BEJGJA ØLL KNJE þeirra sem aa Himnum, og aa Jørdu, og undir Jørduñi eru, og ALLAR TUNGUR SKULU VJDURKJENNA, þad JESUS Christus SJE DROTTJNN, til Dijrdar Guds Fødurs.

443. Hvad er Christi Nidurlægingar Stand?

Þad er þad Stand, i hveriu hañ eftir siñi Mañdoomligri Natturu, lagdi af ad brwka fullkomliga og sijfelldt þa Guddoomligu Eiginligleika, sem Mañdoominum voru meddeildir, og took uppaa sig Pioons Mind, so ad hañ med siñi Hlijdni kiñi ad forlijka oss vid Gud.

444. Hvad er Christi Upphafningar Stand?

Þad er þad Stand, i hveriu Christur (þa hañs Pijna var endud) var eftir siñi Mañdoomligri Natturu, upphafiñ, til ad brwka fullkomliga og sijfelldt, Guddoomliga Eiginligleika og Tignargiædi, til ad giøra oss Hluttakandi i þeirri Sæluhialp, sem oss var utvegud af hønum.

445.

445. Hvad morg Atridi eru i Christi diwpu Nidurlægingu?

Su Postuliga Trwarjætning upptelur Fim, sem er: 1.) Fatækliga Fæding. 2.) Pijnuna. 3.) Krossfestinguna. 4.) Daudañ, og 5.) Greftranina.

446. Pvi uppbyriadi Christur sitt Lijferni med þeirri fatækligu Fæding i Stallinum?

Ad hañ sem fyrst æviisadi þad, ad hañ sækti eigi eftir Rijkium og Metordum Veralldariñar, helldur villdi hañ alleinasta AUDGA OSS MED SJNNJ FAATÆKT: 2. Cor. 8. 9.

447. Hvad var þad sem Christur leid?

Allir hñs Lijfs Hagir voru fra Ungdoomi fullir med Fatækt, Foragt, Ofsookn, Erviδi, og Onædi; Eñ ad sijdurstu var hañ særliga pijndur, undir þeim Romverska Landshofdingia Pontio Pilato, sem liet hañ hwdstrijkia, hæda þyrnkrijna, og illa med hañ hondla.

448. Leid Christur alleinasta Utvortis a Lijkamanum?

Nei, hañs allra stærsta Kvol var su Helviitska Saalar Angist, vegna vorra Synda, hverra þin Punga Byrdi utpressadi af honum Blood-Sveitañ, og kom honum til ad seigia:

HRIGG ER SAALA mijn allt til Dauda

Matth. 26. 38.

449. Hvar fyrir Leid JEsus so mikil Harmkvæli?

Vegna vorra Synda og oss til Saaluhiaalpar.

Es. 53. 7. 8. Sañarliga þa bar hañ VORT KRANKLÆTE, OG VORUM PIJNUM HLOD HANN UPPA SIG, FYRIR VORRA MISGIÖRNDA SAKIR er hañ særdur, og fyrir VORRA SYNDA SAKIR er hañ lemstradur, Hegningin hun liggur a honum, uppa þad vier hefdum Fridiñ, og FYRIR HANNS BENJAR ERUM VIER HEILBRIGDIR ORDNIR.

450. Hvernig hagadi JEsus sier i siñi Pijnu?

Miog Poliñmoodliga, so sem eitt Lamb sem leidist til Slatrunar Beckfins. Es. 53. 7.

451. Hvad er Christi Krossfesting?

Eitt miog Kvalafullt, forsmanarlegt, og bölvad Dauda Straff, sem brukad var vid allra stærstu Odaada Meñ. Gal. 3. 13. CHRISTUS hefur LEYST OSS fra BÖLVAN Logmaalsins, þañ Tijd hañ vard Bölvan fyrir oss, (þviad skrifad er) BÖLVADUR SIE SA, hver SEM A TRIE HANGIR.

452. Er Christur sañarliga dauñ a Krossinum?

Ja. Luc. 23. 46. JEsus kalladi haart, Roddu og sagdi: J þijnar Hendur, Fel eg miñ Anda. Og er hañ hafde þetta sagt, GAF HANN UPP SINN ANDA.

453. Hafdi soddañ Daudi JEsu Christi stooran Kraft til ad utvegna oss vort Lijf og Saaluhiaalp?

Ja/

Jaa, alra stærsta Kraft, þvi þar med var Daudiñ, so sem Syndariñar Verdlaun, betaladur af vorum Medalgaungara, og vier, fyrir hañ, lausir giefnir. Rom. 5, 10. Vier erum vid Gud FORLIKTIR FYRIR hañs SON, ANDAVDA, þa vier vorum eñ Ovinir.

454. Hvad var Christi Greftran?

Ecki var nockur Naudsyn a heñi, med þvi hañ ætladi eigi ad vera Daudur til Leingdar, helldur var hun eiñ Vitnisburdur um, ad hañ være sañarliga daudur, so og eitt Huggunar-rijkt Miñis-Teikn, ad vorar Syndir eru nidurgrafnar, vorar Grafir helgadar, og þeirra Vidbiodder frá þeim tekiñ.

455. Hvernig a Madur ad æfista allt Christi Lijf og Pijning, i þessu Nidurlægingar Standi?

Ad nockru Leiti, og serdeilis, so sem eina Forlijkun fyrir oss; og ad nockru Leiti, so sem Heilagleikans og Poliñmædiñar Eftirdæmi, i Lijfnadinum og Pijnuñi. 1. Pet. 2. 21. Christur hefur eiñig LIDID FYRIR OSS, og OSS eitt EFTIRDÆMI eftirlaatid, ad þier skyllud EFTIRFYLGIA hañs FOOTSPORUM. 1. Joh. 2. 6. Joh. 13. 15, Matth. 10. 38. Cap. 11. 29. Luc. 9. 23.

456. Hvad kom eftir Greftranina, so sem þad Sijdarsta Atridi, i Christi Nidurlægingar Standi?

Hañs Upphafningar Stand, og til þess hlijda

lijka Fim̃ Atridi, sem er: 1.) Hañs Nidurstigning til Helvijtis, 2.) Upprisañ, 3.) Himnaforiñ, 4.) Setañ til hægri Handar hiá Fedurnum, 5.) Afturkomañ ad dæma lifendur og dauda.

457. Hvad er Christi Nidurstigning til Helvijtis?

Hun er þad, ad hañ hefur skoñu fyrir sijna Upprisu komid til sama-Stadar þeirra fordæmdu, kroosad Sigri yfir Satans Makt, og predikad fyrir Ondunum. 1. Pet. 3. 18. 19. 20. Christur er deyddur eftir Holldinu, eñ LIFANDI GIORDUR EFTIR ANDANUM, I HEIM sama er hañ einnig i burtgeingiñ, og HEFUR þeim ONDUNUM PREDIKAD, I FIOTRUNUM, hverier fordum Daga eigi trwdu.

458. Hvad er Christi Upprisa?

Hun er, ad hañ a Pridia Deigi, eftir siñ Dauda, hefur tekid aftur sitt Lijf, forklarad siñ Lijkama, og i honum syndt sig opinberllga.

Gb. Post. 2. 24. Gud hefur UPPREIST JEsUM, AD UPPLEYSTUM DAUDANS KVOLUM, fyrir þvi ad þad var Omøguligt, ad hañ skylldi af honum halldiñ verda.

459 Hvada Nytsemd hofum vier af Christi Upprisu? Allrafærstu Nytsemd.

1.) Til Stadfestu vorri Trw, ad fullkomiñ Betalingur sie utlagdur fyrir vorar Syndir, þar ed vor Medalgangari er ur Daudans Fanga

elst sloppin. Rom. 4. 25. Sva er syrir vorar Syndir var OFURSELLDUR, OG FYRIR VORS RIETTLÆTIS SAKIR UPPVAKinn.

2.) Til vorrar andligrar Uppriſu og heilags Framferdis i einum nijum Lifnadi; og ad sijdustu

3.) Til þeſs, ad vorir Lijkamir skulu Saaluhoolpnir upprijsa. Rom, 6. 4. 5. Lijka sem Christur er UPPVAKINN FRAA DAUDUM fyrir Dijrd Fødursins, lijka so skulum vier GAANGA I EINU NIJU LIFERNI; Pvi fyrst vier erum med hønum plantadir til LIKS DAUDA, þa munum vier og UPPRISUNNI LIKIR verda.

460. Umgieckst Christur ad Jafnadi hier a Jørdunni eftir sijna Uppriſu?

Nei, þa hann i Fiorutiju Daga hafdi hier uñ gengist med sijnum Lærisveinum i adskilianligum Opinberunum, og talad fyrir þeim um þad sem heyrdi til Guds Rijkis, veik hann burt ur Verølldinni ad synilegri Narlægd, og foor upp yfir alla skapada Himna til Guds Dijrdar Himins, og hans Hatignar hægri Handar.

Post. G.B. 1. 9. Og er hann sagdi þetta, var hann þeim asiaandum UPPNUMINN, og eitt SKIF TOOK HANN UPP I BURT fyrir þeirra Augum. Ebr. 9. 24.

461. Hvert Gagn høfum vier af Christi Himnafør?

1.) Þa Huggun, ad JEsus er farinn hiedan, ad tilbua oss Stad, i sijns Fodurs himneska

 Hwsi,

Lwsi, og vill taka oss þangad til sijn.

Joh. 14. 2. 3. J mijnš Føðurš Hwsi eru margar VERUR. Eg FER hiedañ ad TIlbwa YDur STad.

2.) Pa Amiñing ad vier Kulum hafa eitt himneskt Slüislag, jaa Lyst til ad fara hiedañ, og vera med Christo. Col. 3. 1. Erud þier nu upp aftur risnir med Christo, þa LEITID PESS HVAD PAR UPPI ER, PAR ed CHRIST-UR er SITIANDI til GUDS HÆGri HANdar.

462. Hvad merkir, Christi Seta til Foðursins hægri Handar?

Ad Christur, eftir siñi Mañdoomlign Natturu, med fullkomnu og æfvarandi Herradæmi, drottnar og stioornar øllum Hlutum.

Eph. 1. 20. 21. Gud uppvakti Christum af Dauda, og SETTI HANN TIL SINNAR HÆGRI HANDAR a Himnum, YFIR ALLANN Høfdingskap, Walldstiett, Magt, og Herradoom.

463. Hvert Gagn høfum vier af Setu Christi til Guds hægri Handar?

Par af vitum vier oss til Huggunar, ad hañ, i Hasæti sijns Guddooms, stioornar siñi Kyrkiu, skar sijna Ovini, bidur fyrir oss, sendir oss siñ heilaga Anda, og med þessu mooti, vill hañ i sijnu Upphafningar Standi giora oss niootandi þess, sem hañ hefur utvegad oss i sijnu Niðurlægingar Standi, hvar i moot vor Skyllda er,

ad heidra, tilbidia, og hlijda so hartt tignudum Hofdingia. Psal. 110. 1. Drottinn sagdi mijnum Drottni, set þu þig til minnar hægri Handar, þangad til eg legg þijna OVJNJ TJL SKÖR-AR FOOTA ÞJNNA, Rom. 8. 34.

464. Er Christur þa eigi framar nalægur hier a Jördunni?

Jw, med einum kroftugum, enn þo osynilegum Hætti. Matth. 28. 20. Siaid, EG ER MED YDUR alla Daga, allt til Enda Verralldar.

465. Nær vill hann i annad Sinn aftur koma synilega til Verralldarinnar?

A þeim sijdarsta Deigi, hver alleina er Gudi kunnur. Post. G. B. 1. 11. Þessi JEsus, sem uppnuminn er fra ydur til Himins, MUN KOMA, lijka so sem þier saaud hann til Himins uppfara.

Luc. 21. 27. Þa munu þeir sia Mannsins Son KOMANDI i SKYNUM, med stoorum Krafti og Dijrd.

466. Hvernig mun þad tilganga a Dooms Deigi?

Aller Menn, bædi þeir sem þa lifa, og hiner, sem adur voru dauder, og þa aftur uppvakter, skulu stadnæmast fyrir Christi Doomstooli, og þeirra Hugreninngar, Ord og Verk dæmast efter Guds Ordi; Visflarner skulu þa og dæmast.

Gb. Post. 17, 31. Hann hefur DAG TJLSETT, a hverium hann vill DÆMA ALLA JARDARKRINGLUNA med Riettvijsi, FYRir EJNN MANN, fyrir hvern hann hefur þad og auglyst.

1. Cor. 4, 5. Dæmid ecki fyrir Tijman, firr enn DROTTINN kiemur, sa er AUGLIJSA MUN einnig þad i Myrkrunum er hulid, og OPINNBER GIORA RAADINN HIARTNANNA, og þa mun hverium sem einum Lofstijr skie af Gudi.

2. Cor. 5, 10. Vier hlootum allir ad OPINNBERAST FYRIR DOOMSTOOLI CHRISTI, uppa þad ad hver eirn ODLIST eftir þvi hann hefur ADHAFST I LIJKAMANS LIJFI, sie þad ILLT EDA GODT. 2. Thess. 1, 6. 7. 8. Pad er riett hia Gudi, ad ENDURGIALLDA PEIM HORMUNG, sem ydur Hormung veita, enn ydur, þier sem Hormung lijdid, HVIILD med oss, þa er Drottinn JEsus mun OPINNBERAST af Himni, medur Einglum sijns Kraftar, og med ELLDSINS LOGA, HEFND ad giefa yfir þa sem ecki þeckia Gud, og yfir þa sem ecki eru hlijdugir Evangelio vors Drottins JEsu Christi.

1. Cor. 6, 2. 3. Vitid þier eigi, þad HEILAGIR munu HEIMINN DÆMA? Vitid þier eigi, þad vier munum yfir EINGLUNUM DÆMA?

Joh. 12, 48. Pad ORD sem eg taladi, þad mun DÆMA hann A EFSTA DEIGI.

467. Er þad nu noog, ad þu veitst allt þetta umm Christum, og helldur þad fyrir satt?

Nei, ecki utann sa Heilagi Andi auglijsi Christum i minnu Hiarta fyrir eina lifandi Trw, og helgi mig so i Saanleikanum.

Utaf þridiu Grein Trwarjatningarinnar.

468.

468. Trwir þu a þa heilogu almenniligu christiligu Kyrkiu?

Nei, helldur trwi eg, ad ein, heilog, almennilig christilig Kyrkia sie til.

469. Trwir þu a Heilagann Anda?

Jaa, a Heilagann Anda trwi eg, eins og a Fodurinn og Soninn, þvi hann er med þeim ein Guddoomlig Vera.

470. Bevijsa þu mier, ad heilagur Andi sie ein Guddoomlig Persoona?

Pad bevijsast, ecki alleinasta af þeim Guddoomligu Eiginligleikum og Verkunum sem honum tilleggiast oftliga i Ritningunni; Helldur og so, af þvi hann verdur utþryckiliga nefndur Gud.

Gb. Post. 5, 3. 4. Anania, þvi uppfyllti Andskotinn Hiarta þitt, so ad þu villdir liwga ad HEILOGUM ANDA? Eigi hefur þu logid ad Monnum, helldur ad GUDI. 1. Cor. 3, 16. Vitid þier eigi þad þier erud Guds MUSTERI, og þad GUDS ANDI byggir i ydur. 1. Joh. 5, 7.

471. Þvi kallast hann einn Andi?

Vegna þess, ad hann med einum Guddoomligum Hætti, so sem Guds Munns Andi, (Ps. 33, 6.) Framgeingur fraa Eilijfd af Fodur og Syni. Joh. 15, 26. En þa sa Huggarinn kiemur, hvern eg mun senda ydur af Fodurnum, sem er Sannleiksins Andi, HVER AF FODURNUM FRAMMGEINGUR, hann mun bera Vitni af mier.

472. Vegna hvers kallast hañ Heilagur Andi?
Eigi alleina þess vegna, ad hañ er sialfur i siñi Veru heilagur, helldur og þar fyrir, ad hañ framkvæmir i Moñum Verk Helgunariñar.

473. Hveriar eru þær helldstu Verkanir heilags Anda?
Ad kalla, uppliisa, helga, og vidhallda.

474. Er nockur Þorf a ad þeckia þessar heilags Anda Verkanir i Sæluñi?
Ja, þvi eftir þvi mæ hver eiñ proofa sig sialfañ, hvert hañ sie eiñ riettiilgur Limur Guds Kyrkiu.

475. Hvad er þa Guds Kallan?
Ad hañ, med siinu Ordi, hrærir Mañaña Hiertu, opiñberar þeim siina Naad, sierdeilis fyrir Evangelium, frambijdur hana alvarliga, og giefur med þvi sama (Evangelio) Kraft til ad medtaka hana. 2. Tim. 1, 9. Gud hefur oss hialpliga giordt, og KALLAD MED HEILAGRI KALLAN, ecki eftir vorum Verkum, HELLDUR EFTIR siñi Fyrirhyggiu og NAAD.

476. Hver eñur Hialpar-Medøl brukar Gud til ad uppvekia og kalla Meñina til ad leita Sæluhialpariñar?
Hier til brukar hañ Stundum Plaaningar, Stundum Velgiorninga, Stundum añara Eftirdæmi, og soddañ fleira, sem Meñ kyña ad færa
sier

fier til Jhugunar.

477. Siegna allir Meñ hvilijkri Guds Kallan?
Nei, margir standa a mooti þeirri heilags Anda Naad sem undañ geingur, og undirbijr þa, og þess vegna nivota þeir eigi helldur ad Naad-iñ brot i þeim.

478. Gietur Madur mootstadid Guds Kallan?
Jaa. Gb. Post. 7, 51. Þier STAND-JD jafnañ i MOOTJ HEJLØGUM ANDA.
Es. 65, 2. Eg UTRJETTJ mijnar Hendur allañ Dagiñ, TJL eins OHLYJDUGS FOOLKS.

479. Hver medtekur þa Guds Kallan?
Þeir sem medtaka Ordid, med viliugu Hiarta, og færa Avoxt i Poliñmædi; Þad er: Þeir sem ydrast og trwa Evangelio, hvert ad er Kraftur Guds til Saaluhialpar, eñ eigi nema hiaa þeim sem trwa. Rom. 1. 16.

480. Þa Madur eigi mootstendur Evangelii Kallan, helldur giefur heñi Rwm hiaa sier, hvad verkar hun þa i Hiartanu?
Hun verkar Upplijsing; þad er, eina lifandi Þeckingu og esfuga Sañfæring, uñ þañ Guddoom liga Sañleik, hvern Madurin fær þa fyrst sied og smackad riettiliga. Joh. 7. 17.

481. Er þa eiñ ogudligur Madur ecki upplijstur, af þvi hañ er skijr og frodur i Ritningunni?
Nei, hañ er eñ nu Myrkrañs Barn, og þeck-

ir elgi Liooſaña Fodur.

1. Sam. 2. 12. SYNIR ELI voru illir Skalkar, þeir HYRDTU ECKI UMM DROTTINN.

Jer. 2. 5. PRESTARNIR hugſudu ecki, HVAR ER DROTTINN? og þeir hinir LÆRDU SKEITTU ECKI UMM MIG, og HIRDAMANNir BURTLEIddu FOOrKid FRaa MIer.

Joh. 8. 54. Hvern þier ſeigid ydvarn Gud vera, og PECKID HANN PO EIGI.

1. Joh. 2. 3. 4. Þar af vitum vier, þad vier PECKIUM HANN, EF AD VIER VARDVEITUM HANNS BODORD; hver ed ſeigir: EG PECKI HANN, og HELLDUR ECKI HANNS BODORD, ſa er LIUUGARI, og i hvilijkum er einginn Saññleikur. Eph. 5. 8. PIER vorud fordum MYRKUR, eñ nu erud þier Lioos i Drottni, gangid ſo ſem Børn Liooſſins.

482. Seig mier þañ eiginliga Miſmun ſem er a milli mañligs Lærdooms, og gudligrar Upplijſingar?

Saa mañligi Lærdoomur verdur lærdur med mañligri Skynſemi og Yoni af Guds Ordi, hvers Krafti verdur þa i mooti ſtadid. Eñ ſu gudliga Upplijſing verkaſt fyrir þad ſama Ord, af heilogum Anda, ſem þa nemur ſtadar og bijr i Saalunni. Saa mañligi Lærdoomur er ecki nema i Heilanum, og ein toom Hiſtoriu Pecking; Eñ Gudliga Upplijſing iñtekur Hiartad, og er ſamañ vid hana ein liſandi Reynſla, (Madur kiemiſt

kiemst ad Raun um̃ þad, ad soddañ allt er satt og Saaluhialpligt.) Fyrir þañ mañliga Lærdoom blijfur Madur samt i siñi Vondsku; Eñ su gudliga Upplijsing byriar ad taka i burt Mootþroa Villians.

483. Hvad skilst fyrir þad Ord Helgun?

Þegar meint verdur med þvi fleira eñ eitt, iñibindur þad i sier þetta þrent, sem verdur hvert ödru ad filgia: Endurfædingina, Riettlætingina, og Endurnijungina. Añars merkir þad oft alleina dagliga Endurnijun.

484. Hvad er Endurfædingiñ, edur su nija Fæding?

Þad sama er hun sem Meddeiling eiñar lifandi Trwar, edur Uppvakning af þeim andliga Dauda, Um̃vendan og Flutningur fraa Myrkrunum til Liooßins, fraa Dioful'sins Valldi til Guds. Eph. 2. 4. Þa vier vorum DAUDJR J SYNDUNUM, hefur Gud GJORDT OSS LIFANDI i Christo.

485. Seig mier eñ þa skijrligar hvad Endurfædingiñ er?

Hun er eigi (eins og Nicodemus meinti) ad Madurin̄ skilldi hverfa aftur i siñar Moedur Lijf, þa hañ væri ordiñ gamall, og fædast so ad niju; Helldur er Endurfædingiñ eiñ andligur, og iñvortis Gjorningur Guds, i Hiarta Mañsins, sem

sem fæðist ad nyju, þegar þar i skapast, med þeim Hiarta, sem vier gietum eigi skilid, eitt nyitt Gudligt Edli og Hattalag; J Skilningin-um nyi Upplijsing; J Vilianum ein nyi Eftirlaungan, Gyrnd og Kraftur; og so alldeilis nyitt Lif i þeim sem añars var andliga daudur, hvert ed Ritningiñ kallar nyitt Hiarta, og nyiañ Anda, eina nyia Mañeskiu, ellegar nyia Skepnu.

Ez. 36. 26. Eg vil giefa ydur eitt NYITT HIARTA, og eiñ NYIANN ANDA i ydur, og eg vil BURTTAKA STEINHIARTAD af ydru Holldi, og giefa ydur eitt KIÖTLIGT HIARTA.

Joh. 3. 6. Hvad af HOLLDINU ER FÆDT, þad er HOLLD, og hvad af ANDANUM ER FÆDT, þad er ANDI.

486. Fyrir hver Medøl verkast þessi Endurfæding? Hiaa Ungbørnunum skiedur hun fyrir Vatn og Anda i Skijrnar Sacramentinu, eñ hiaa þeim Fullordnu, sem vegna Andvaraleysis edur Illgyrnis Synda eru fallnir fraa Skijrnar Naadiñi, og Endurfædingar Standinu, fæst hun aftur aa nyi fyrir Guds Ord, sem er þad oforrotnanliga Sædi. 1. Pet. 1, 23.

487. Er þa alldungis naudsynligt til Saaluhjaalpariñar ad vera endurfæddur?

Jaa, vissuliga. Joh. 3, 3. NEMA so sie ad nockur verdi ad NYIU FÆDDUR, HANN

kañ

KANN EJGJ ad sia Guds Rijki. Gal. 6, 15. J Christo JEsu dugir HVERKJ UMMSKURN nie YFJR-HUUD nockud, helldur NJJ SKJEPNA.

488. Hvar af fær Madur þeckt ad hañ sie endurfæddur?

Pad þeckist af alvarligri Umbreiting hañs Hiarta, og af þeim niju Gæfum Nadarinñar, sem giora hañ ad elñi þeckianliga nijrri, og añari Mañeskiu.

489. Hvad er þad þa sem Mañeskiañ ødlast eiginliga med Endurfædinguñi, þad sem hun hafdi ei ædur?

Hun ødlast þa soñu lifandi Trw, sem umfadmar og ed sier tekur Christum, og i hönum Sonarligañ Utvalningar Anda, med Rietti til Guds Rijkis, samt Lyst og Kraft ad giøra Vilia Guds.

Joh. 1, 12. 13. So margir sem hañ medtooku, þa gaf hañ þeim Magt GUDS BORNUM ad verda, þeim er a hañs Nafn TRUUA, þeim sem ECKJ af BLODJNU nie af HOLLDSJNS VILLD, nie MANNSJNS VJLIA, helldur þeim sem af GUDJ eru BORNJR.

490 Hvad er su saña lifandi Trw, sem gieffñ verdur med Endurfædinguñi?

Trwiñ er, þegar ein ydrandi Sæil iñflijr, og leitar sier Lijknar, til Guds Nadar, i Christi Forþienustu, hverla hun tekur ad sier med Eftirlangan, og tileinkar sier hana, og treystir med eruggu

oruggu Trausti þar uppat.

491. Hvernig utmalar Lutherus þa sönu Trw?

Trwiñ er eitt lifandi oruggt Huggunar Traust um̃ Naad Guds, hun er eitt Guds Verk i oss, sem giorir oss um̃skiptiliga, og fædir oss ad niju af Gudi, deydir þañ gamla Adam, giorir oss ad olldungis odrum Mañeskium, ad Hiartanu, Hugan..m, Siñ'slaginu, og ollum Kroftunum, og færir med sier heilagañ Anda. O hversu lifandi, kroftugur, megtugur og kostgiæfiñ Hlutur, er Trwiñ!

·(Sia Formaala Pistilsins til Romveria.)

492. Hvad margir Partar tilheyra þa eiginliga þeirri sönu Trw?

Prijr, sem eru:

(1. Lifandi Pecking um̃ Gud og hañs Vilia, sem opiñberadur er i Ordinu.

Joh. 17, 3. Pad er eyliift Lif, ad þeir PECKI PIG, alleina eiñ sañañ Gud, og þañ þu sendir JEsum Christum. Rom. 10, 14. Hvernig skulu þeir TRUA a þañ, af hverium þeir hafa eigi HEYRT?

(2. Lifandi Samsiñing edur Sambycki og Sañfæring um̃ Sañleik þess, sem Madur veit af Guds Ordi. Joh. 3, 33. Hver ed MEDTEKUR HANNS VITNISBURD, SA INNSIGLAR þad, ad Gud sie SANNUR.

Ebr. 11, 1. Trwiñ er ORUGGT Traust þeirra Hluta

Hluta sem Madur VONAR, OG EFAR EIGI um þad, sem hann sier ecki.

(3. Ein lifandi Tileinkan Guds Nadar i Christo, samt Traust og Huggunar Athvarf til þeirrar semu; Hvert helldur hun andsonir sig i brennandi Laungun og Hungri eftir Christo, ellegar i stærri Fullvissu um Nad og Roosemd i hm.

Matth. 5, 6. SÆLIR eru þeir sem HUNGRA OG ÞYRSTA eftir Riettlætinu, þviad þeir skulu saddir verda. Rom. 8, 33. 34. Hver vill AAKLAGA Guds utvallda? GUD er hier sem RIETTLÆTIR. HVER er hann sem FORDÆMIR? CHRISTUR er hier sem DAUD HEFUR, ja, mikln helldur sa sem UPP AFTUR ER VAKINN, hver ed er TIL HÆGRI HANDAR GUDI, OG BIDUR FYRIR OSS.

493. Hvar fyrir kallast þessi Þecking, Samþÿkking og Tileinkan, ein LIFANDI TRUU?

Vegna þess, ad þessir Hlutir eru ecki alleina verkadir af Guds Ordi, sem er Lijf og Andi, helldur og eiñig lata þeir sig fiña lifandi og kroftuga i Hiartanu; eñ þad gierir ecki su dauda Trw.

404. Hvad er daud Trw?

Su dauda Trw er raung Ætlan, sem ydrunarlausir Syndarar smijda sier sialfum, ad þeir muni fa Guds Nad, jafnvel þoott þeir vilie eigi umvendast, nie leita Nadariñar med þvi rietta

Lagt,

Lagi, helldur eru allir hinir semu; þar þo Trw-arinnar Edli og Eiginligleiki er ad umbreita Mann-eskiunni. Jac. 2. 26. Lijka sem Lijkaminn er ann Andans DAUDUR, So er og einnig TRUUNNN, AAN VERKANNA DAUD.

495. Hafa þa þeir Ydrunarlausu einga sanna Trw? Nei, alldeilis einga, þvi þo þeir kunni allt Guds Ord, hallda þad fyrir satt, og huggi sig þar vid, þa er þo þeirra Trw daud, og þeirra Asigkomu-lag og Hattalag fordæmanligt, so leingi sem þeirra Trw er ecki ad sinna nema i Heilanum, (Lærdoominum) og hun kiemur ecki i Hiartad, eda deydir ei þann gamla Adam, og endurfæder þa til ad verda ein nij Manneskia

496. Af hveriu giet eg þa þeckt, hvert mijn Trw er lifandi edur dauð?

Af krostugri Verkan hennar i Hiartanu, sem er Kiærleikurinn til Guds og Naungans, Hat-ur til Syndarinnar, Sigur a Heiminum, riettilig Brwkun Nadar Medalanna, og fleira soddann.

Jac. 2. 18. Syn þu mier TRUU þijna wt af VERKUM þijnum. Luc. 6. 43. Eckert GOTT TRIE BER FUUINN AVÖXT, og eckert FUUIT TRIE BER GOODANN AVÖXT.

Gb. Post. 15, 9. Gud HREINSADI þeirra Hi-artu MED TRUUNNI. 1. Joh. 5, 4. Allt hvad AF GUDI er FÆDT, þad YFIRVINNUR Heimin

HEIMINN, og VOR TRUU ER YFIRVINNINGINN, hver Verølldina hefur yfirunnid.

497. Er þa ſeñ Trw ætijd og hiaa øllum eins ſterk?

Nei, þvi þá Vantrwiñ ſtrijdir a hana, þa er hun a ſtundum miøg veik, ſem ein ſkialfandi og titrandi Hønd, ſem varla vogar ad taka til Naadar Guds, edur tileinka ſier hana, eñ vill þo til heñar med hiartanligri Gyrnd og Eftirlangan.

Marc. 9, 23. EG TRUUI, Herra! Hialpa þu MINNI VANTRU.

498. Lætur þa Gud ſier lijka jafnvel veika Trw?

Jaa, þa hun er ſoñ og Skijlaus, þo hun ſie veik; Sem þa kañ beſt ad ſiaſt a þvi, ad Madur hafi alvarligt Hatur a Syndunum, og hañ langi eftir ſterkari Trwar Styrking, jafnvel þo Diorfung Trwariñar ſie ecki þa ad fiña.

Matth. 5, 3. 6. Sælir eru þeir ſem ANDliga eru VOLadir, þviad þeirra er Himnarijki, etc. 1. Joh. 3, 19.

499. Hvada Gagn hefur þa Madur af þeirri Trw ſem hañ ødlaſt med Endurfædinguñi?

Allra ſtærſta Gagn, þvi Trwiñ alleina er þad, ſem hondlar Chriſtum, og giorir Syndarañ riettlætañ, þad er, Hluttakara i Jeſu Chriſti Riettlæti.

Rom. 5, 1. Med þvi vier erum nu RJETTLAATIR ORDNIR FYRIR TRUUNA, þa hafum vier FRid vid Gud, fyrir vorn Drottiñ Jeſum Chriſtum.

500. Hvad er Riettlætingiñ?

Hun er hiñ allra nærsti Avoxtur Endurfæd-
ingariñar, og er iñifaliñ i þvi, ad sa þrijeini Gud
af einskiærri Naad, ælyktar fyrir sijnum Doo-
mi, eiñ sañydrandi og trwadañ Syndara frij-
añ, bædi fraa sijnum Syndum, og þeirra for-
þientu Straffi, og tilreiknar honum aftur aa mo-
ot Christi Riettlæti. Jaa, hañ ælijtur hañ
Christo, eins og hañ hefdi alldrei syndgad.

2. Cor. 5, 21. Hañ hefur þañ sem af eingri Synd vis-
si, FYRIR OSS AD SYND GJORDT; uppa
þad, vier yrdum i honum PAD RJETTLÆTJ, sem
FYRIR GUDJ GJLLDJR. Rom. 3, 28. S-
holldum vier nu, þad Madurin verdi RJETTLÆTUR
aan Logmaalsins Verka, FYRIR TRUUNA alleina.
Gal. 2. 16. Med þvi vier vitum þad Madurin verdu-
ecki RJETTLÆTUR fyrir Logmaalsins VERK, helld-
ur fyrir TRUUNA A Christum JEsum. So trwum
vier og einig aa Christum JEsum, uppaa þad vier verd-
um RJETTLÆTJR FYRJR TRUUNA aa Christ-
um, og ecki fyrir Verkin Logmaalsins, þvi fyrir Verkin
Logmaalsins verdur eckert Holld riettferdugt. Sia
Rom. 4. 28. Phil. 3. 8. 9. Eph. 2. 8 10.

501. Er þa soddañ ein riettlætt Saal i ein-
hiaalpligu Afigkomulagi og betra eñ ædur?

Jaa vissuliga, þvi hun er þa komiñ i nanar-
Teingdir vid þañ Prij-eina Gud, sem bijr i Hiar-
tanu, so sem i sijnu eigiñ Musteri. Hun er þa i
Christo avdgud med andligri Blessan, þeim him-
nesku

nesku Giædum, med ometanligum Evangelii Tignar-giædum, med Naudariñar og Sæluhiælpariñar rijkugligum Audæfum og Fiærsioodum. Psal. 32. 1. 2. SÆLIR eru þeir hverium YFIRTRODSLURNAR ERU FYRIRGIEFNAR, þeir, hverra SYNDIR ad eru HULDAR. SÆLL er sa Madur hverium DRottiñ TILREIKNAR ecki Syndina, i hvers Anda þad eingiñ Flærd er.

502. Hveriar eru þa slijkar Evangelii Naadar-Gaafur?

Þær eru: Christi Riettlæti, Syndaña Fyrirgiefning, su sonarliga Utvalning, Guds Fodurlig Umsorgun, Erfda-Rietturiñ, Fridur vid Gud, þad sonarliga Trwnadar Traust, sætur Smeckur Guds Elsku, Adgangur til Guds Naadar, Diorfung til ad bidia hañ; Fullvissa um Naad Guds, um Bænheyrslu og Hiælp i allri Neyd, sierdeilis um kroftuga Guds Verndan fyrir ollum Ovinum synilegum og osynilegum, Forsmeckur þess eylijfa Lijfsins, Gledi i Heilogum Anda, Stioornan, Upplijsing, Tiladan, og Kraftur þess sama Anda; Frelsi fraa Straffi og Yfirraadum Syndariñar, fraa Guds Reidi, fraa Logmalsins Bolvan og Kwgan, fraa Satans, Helvijtis og Daudans Makt, fraa Verolldiñi og vondri Samvitsku, og

(Vissa

Vissu um̃ þad allir Hlutir, jafnvel þær bi
rustu Plaser, skulu verda Trwudum ad goodu
Ein lifandi Von um̃ Saaluhiaalpina, hvar a
eftir fi:gir su eylijfa, outseigianliga Gledi, o
Dijrd i Himninum. Eph. 1. 3. Blessadur s
Gud og Fadir vors DRottins JEsu Christi, sem o
hefur BLESSAD MED ALLSHAATTADR
ANDLIGRI BLESSAN i Himneskum Giædum
fyrir Christum. Eph. 3. 8. Mier hinum sijdarst
allra Heilagra er giefin̄ þessi Naad, þad eg kun̄gørd
medal Heidin̄a Pioodа þan̄ ORANNSAKANLIGS
RIJKDOOM CHRISTI. Rom. 10. 15
Hversu frijdir eru Fætur þeirra sem FRIDINN
BODA, þeir ed boda hid GOODA.

503. Smackar hver ein̄ Riettlættur ætijd o
eins mikg þessar Naadar-Gaafur?

Nei, sierdeilis i Sorg, Freistingum og A
strijdum: Þar fyrir skal ein̄ trwadur Madu
leitast vid, med Fram̃for i Trwn̄i, ad tileinka sie
þær med stærstu Um̃hyggiu, vardveita þær me
Otta og Fagnadi, og faa þar af Lyst og Kraft
ad laata sier fara fram̃ i þeirri dagligu Endurnij
an, edur Helgan, sem fylgist med Riettlætingun̄

Eph. 1. 16. 17. 18. 19. Eg læt ei af Packir a
giora fyrir ydur, og ad min̄ast ydar i mijnum Bæn
um: Þad Gud vors Drottins JEsu Christi Dijrda
in̄ar Fadir, giefi ydur VIJSDOOMSINS O
OPINBERINGAR ANDA, TIL þan̄s ei
Viđurk

VIDURKIENNINGAR; Og UPPLIJSEI AUGU ydvars Skilnings, bad þier meigid VITA, hvilijk ad sie SU VON, sem þier erud tilkalladir, og hver þar sie RIJKDOOMUR hans DIIRDAR-FULLRAR ARFLEIFDAR, til hans Heilagra; Og hver þar sie hin YFIRGNÆFANLEGA STÆRD HANNS KRAFTAR, vid oss, vier sem trwum eftir VERKAN HANNS VOLLDUGA STIRKLEIKS. 2. Cor. 4. 3, 4.

504. Hvad er eiginliga Endurnijungin?

Hun er, idugliga ad afklæda sig þeim gamla Mañi, edur læta af Syndunum, og iklædast aftur þeim nija Mañi; edur læta sier dagliga framfara i þvi Gooda; so sem Upplijsing og Peckingu Guds, i Trw, Von, Kiærleika, Audmykt, Hoogværi, Polinmædi, Afneitan sialfs sijns, Lysting til Bænræknīnar og Guds Orda, Krafti til ad standa æ mooti Syndiñi, og kieppast eftir Helguniñi, (og so framveigis.)

Eph 4. 22. So AFLEGGID i fraa ydur eftir fyrri Breitni HINN GAMLA MANNINN, sem sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins; Eñ ENDURNIJED YDUR i Anda ydvars Hugskots, og KLÆDIST ÞEIM NIJA MANNI, sem eftir Gudi er skapadur i sañarligu Riettlæti og Heilagleika.

505. Þvi kallast þessi Endurnijan DAGLIG?

Þvi hun er eigi strax fullkomiñ eins og Riettlætingiñ, helldur eigum vier med dagligri Ástun-

 dan

Dan ad efla hana alla vora Lijfdaga ; Og þa þeckiſt Guds Mind, Siñi og Art, meir og meir hiaa hañs endurfæddu Bornum.

Phil. 3, 12. Ecki þad eg hafi þad ÞEGar HONDLAD, edur ſie ÞEGAR FULLKOMIN, eg ſkunda þar eftir, hvert ad eg giæti eiñig hondlad, eftir þvi ad eg em af Chriſto hondladur.

506. Hver er ſu ſijdarſti Velgiorningur Heilags Anda vid Mañin ?

Þad er Vidhalldid; þvi þa hañ hefur helgad oſs med Endurfædinguñi, Riettlætinguñi, og Endurnijaniñi, þa vidhelldur hañ oſs og ſo i allskonar Freiſtingum, i ſañri Trw, allt til Enda, ef vier eigi follum fraa moetvilialiga. Phil. 1, 6. Sa ſem i ydur hefur UPPBYRIAD hid gooda Verkid, hañ mun þad og eiñig FULLKOMNA allt til þeſs Dags JEſu Chriſti. 1. Pet. 1. 5. Cap, 5. 10.

507. Hvernig vidhelldur Heilagur Andi þeim trwndu?

Med þvi hañ iñvortis ſañfærir, edur aavijtar, Frædir, leidir, og huggar þeirra Hiortu.

508. Hvad er Heilags Anda Sañfæringar edur Aavijtunar Embætti ?

Ad hañ giorir Samvitſkuna vidkvæma, ſo ad hun kañaſt, med ſaarri Tilfiñingu, i afnvel vid hinar minſtu Syndir, hvar af ad klemur ſu ſañá Hiartans Audmijkt. Joh. 16. 8. Þa Talsmadurin kiemur, mun hañ STRAFFA HEIMINN fyrir Synd, og fyrir Riettlæti, og fyrir Doom.

509. Hvad er Uppfrædingar Embætti Heilags Anda?
Ad hañ med Guds Ordi, æ meir og meir opnar og upplijsir Mañsins Skilning, og stadfestir Sañleikañ i Hiartanu æ mooti øllum Villudoomi.
1. Joh. 2, 20. 27. Þier hafid SMURNINGINA af þeim sem Heilagur er, og ÞECKID ALLT.

510. Hvad er Leidriettingar Embætti Heil. Anda?
Ad hañ med siñi heimugligri Uñvendun og Vidvorunum helldur Mañi fraa þvi ad syndga, eñ upporvar, tilledar, og upphvetur hañ til þess Gooda. Rom. 8, 14. Þeir sem Guds Andi LEIDIR, þeir eru Guds Børn.
Gal. 5, 16. GAANGID I ANDANUM, þa munud þier ecki fullkomna Holldsins Gyrndir.

511. Hvad er Huggunar Embætti Heil. Anda?
Ad hañ, sierdellis æ Freystingar Tijmanum, og æ Neydariñar Tijma, miñir eiñ sañchristiñ æ Guds Naadarrijka Hiaastod, giefur honum ad smacka Evangelii Huggunar Kraft, og vidhelldur honum so i Poliñmædiñi med lifandi Von.
Rom. 15, 13 Gud Vonariñar FYLLI YDur MED ØLLUM FAGNADI OG FRIDI i Trwñi: So ad hier hafid akvoogliga Von FYRIR KRAFT HEILAGS ANDA. Rom. 8, 16. Sa sami Andi BER VITNISBURD med vorum Anda, ÞAD ÞIER ERUM GUDS BØRN.

512. Þegar Guds Andi un so helgar Meñina, og vidhelldur þeim, hvad kallast, og eru þeir þa?

Heilagir, edur heilagar Mañeskiur.

Eph. 1, 1. Þeim HEJLÖGUM sem eru til Ephesó, og TRUUDUM i Christo JEsu. Psal. 86, 2. Vardveit þu Saal mijna, þvi eg em þiñ HEJLAGUR.

513. Hvar er þessa Heilaga ad fiña?

J þeirri Heilogu, Almeñiligu, Christiligu Kyrkiu.

514. Hvad skilst hier fyrir Kyrkiu?

Ecki eitt Hws, sem er bigt af Trie og Steinum, helldur er su Kyrkia eitt Samneyti, Samband og Sameining Heilagra Maña i Andanum.

515. Eru soddañ Kyrkiur edur Samneyti mørg til?

Eckl utañ ein, sem er Almeñlig, þad er; Eigi bundiñ vid nockurt viist Plaats, helldur er hun utdreifd um alla Veroldina, hvar hun er nu strijdandi, eñ skal i Himninum Sigri hroosa.

516 Þvi kallast Kyrkiañ CHRJSTJLJG?

Þvi hun vidurkieñir Christi Lærdoom, og hefur Christum sialfañ fyrir sitt Hofud og Hetra alleina.

517. Er þad þa æ tijd soñ Christilig Kyrkia, sem vidurkieñir Christi Nafn, og kieñir sig vid hañ?

Nei, ecki utañ hun kieñi þar med Christi Ord ofalsad, og brwki þau heilogu Sacramenta eftir hañs Jñsetningu; Og eru þetta Kyrkiuñar Kieñ-Teikn. Joh. 8, 31. 32. Ef þier BLJFJD VJD MJJNA RÆDU, þa erud þier mijnir sañir LÆRJSVEJNAR.

518. Verda þeir þa allir Sælu-hoolpnir sem lifa og deya i þeirri sönu Kyrkiu?

Nei, ecki allir Limir þeirrar siiniligu Kyrkiu, helldur alleina þeirrar osiiniligu verda Sælu-hoolpnir. Matth. 22, 14. MARGIR eru KALLADIR, eñ FAAIR UTVALDIR.

519. Eg meinti ad ecki være nema einasta ein Kyrkia; hver er þa Mismunur millum þeirrar siiniligu og osiiniligu?

Hun er eigi utañ ein, eñ i þeim utvortis og siiniliga Hoop eru tveñslags adskilianlig r Limir, sem eru Hræsnararnir, og þeir sañ-Christnu.

520. Hverier eru Hræsnarar, og alleina utvortis Limir?

Þeir sem of einberri Medkieñing hroopa: HERRA! HERRA! ENN GIORA ECKI VILIA FODURSINS SEM A HIMNUM ER. Matth. 7. 21.

521. Hverier eru sañ-Christnir og riettiligir Kyrkunar Limir?

Þeir sem i Trwñi giora Guds Vilia, so þeir HALLDA SIER VID DROTTINN, OG ERU EINN ANDI MED HONUM, 1. Cor. 6, 17. Rom. 8. 9. Hver hañ hefur EIGI CHRISTI ANDA, sa er EIGI HANNS.

522. Kañ Madur ætijd ad þeckia þessa hinasidari fra þeim firri?

DRottiñ þeckir ætijd sijna; eñ fyrir Mañaña Augum er sa Mismunur ecki ætijd opinber,

